# Bodsrit

til ad hlusta á

# Þá opinberu yfirheyrslu

í

## Bessastada skóla

þann 23—28 Maji

1842.

Videyar Klaustri,
Prentad á kostnad Bessastada skóla.

1842.

# Innihald.

1. **Njóla**, edur audveld skodun himinsins, med þar af fljótandi hugleidíngum um hátign Guds og alheims áformid, eda hans tilgáng med heiminn; af **Birni Gunnlaugssyni** Adj.

2. **Skólaskýrsla** af Herrá **Jóni Jónssyni**, *Lector Theol.* og R. af D.

# Njóla

edur audveld skodun himinsins med þar af fljótandi hugleidíngum um hátign Guds og alheims áformid, eda hans tilgáng med heiminn.

## Inngángur.

1. Meistari himna mikli þú!
mig þinn Andi hneigi
svo hugurinn nokkud hugsa nú
um hátign þína megi.

2. Nú er fögur nætur stund,
nú ber skrautid frána *)
þakid bláa' er þandi mund
þín yfir höllu mána.

3. Lít eg sveima hæda hyl
herinn alskínandi;
því vill hefjast himna til

2 *) Fránn er gljáandi; en frár er snar.

hugurinn lofsýngjandi.

4. Himinkóra háa saung
hann vill taka undir;
en þess lítil eru faung,
aptra bernsku stundir.

5. Medan þessi æfin er,
eins og børn vjer hjølum;
ædra mál þú ætlar mér
uppí dýrdar sølum.

6. Hvílík tign er þessi þá,
Þig sem Fødur eiga!
hvílík von þig sídar sjá
med sælli gledi mega!

7. Þig ad sjá um eilíf ár,
æ þá von, sem hrekur
grimma sorg, en gledi tár
geislum hvarma vekur.

8. O þú gríma! Njóla*)! nótt!
nótt um lopt alstirnda!
skuggsjá þú sem skipar drótt
Skaparans dýrd ímynda!

9. Þitt gler málar þjódum heims
(þó mest fjarskinn dylji)
mátt og vitsku', er geisla geims
glóa í regin hylji.

10. Gud oss veit þá gledi lind
góda nú ad finna,

8* Njóla er nótt; sjá Alvísmál 31ta erindi.

er þín á himni *) málud mynd
má daudlegum vinna.

## Vort Sólkérfi.

11. Hugurinn skodar hnetti þá
er heita vort sólkérfi,
sem uppljóma sólin má,
svo hel-mirkur hvérfi.

12. Þannig ljær hún ljós og yl,
líf og gródur sendir,
hnatta sinna hlidar til,
henni mót sem vendir.

13. En sú hlidin er frá snýr,
øll sig skugga hylur.
Med þeim hætti Drottinn dýr
dag og nótt adskilur.

14. Svo ei þessa hérvings hel,
né hina sólin brenni,
hnøttum báud hinn Vitri, vel:
„veltist fyrir henni"!

15. Vetur, sumar, ár og øld
adgreint vera skyldi,
himin kannist, tíd sé tøld,
tignar Fadirinn vildi.

16. Allt skal fjør og yndi ljá,
allt skal breyting géra;

---

10* J náttúrinnar skuggsjá.

hann því skipar hnøttum á
harða = kasti vera.
17. Svo að kast, er setja vann,
sólkérfinu' ei grandi,
þá nam fjøtra þetta hann
Þýngdar segul-bandi.
18. Að kérfið heilt þó haldi sér
helst við selju ljósa *),
megin = abl í mærum her
mátti hún sér kjósa.
19. Pareð ablið þýngdar mest
þegið hefir sunna
þýngst í vøsum sjálf hún sjest
sig minst hræra kunna.
20. Hnettir léttir hlaupa þá
henni fram hjá gjarna,
rétt *) að detti' ei rødli frá
á róla þýngdar varna.
21. Þegar kast og þýngd er á
þannig øllumeigin,
leiðin, sem að lagast þá,
er lína bogaðregin *).
22. Leggur kríngum sólu sú

18 * Þar sólinni var á hendur falið að útbýta ljósinu, þá
þurftu allir hnettirnir að halda sér til hennar. 20 * Þýngdin
má ekki vera svo sterk, að pláneturnar detti inni sólina, ekki
heldur svo lin, að þær verði viðskila við hana, og elti aðra hnetti.
21 * Eins og sá sem í rólunni situr, kastast eptir hringboga.

sig í hrínga' aflánga;
baud svo Gud, og besta nú
birtu hnettir fánga.

23. Svo ei ræki ein sig á
adra plánetuna,
hann misvída hafdi þá
hrínga, sem þær bruna.

24. Þeirra hrínga vídd eg vil
virdar betur skilji,
skotna kúlu tek því til,
er tímann ferdar þylji.

25. Hún skal sólu fljúga frá,
ferd med óstødvandi *),
ad níu árum nærfeldt þá
nædi í Merkúr landi.

26. Árin seitján fram þá fer,
føgru Venus slær hún;
tuttug' og fim ef tekur sér,
til vor líka nær hún.

27. Fjørutíu full ár vel
ferd til Mars hún reyndi,
allt eins leingi og Ísrael
eydimørk sér treindi.

28. Ad finna Vestu ferdin stár
fimtíu' og níu vetur,

---

25 * Þessi fallbissu kúla fer hérumbil 103 fadma á hverri secúndu.

í Júnó sextíu' og sjø hún ár
sól frá komist gétur.

29. Pallas til og Ceres sú
á sjøtíu árum kémur,
leingur fáir lifa nú,
lángtum fleiri skémur.

30. Júpíters til herdir heit
í hundrad tuttugu' og níu,
fram í Satúrns slýgur reit
fern um ár sextíu.

31. Og plánetu Uran til
ytstu sem menn kénna,
um fim hundrud ára bil
ætti kúlan renna.

32. Halastjørnur þeyta þó
þar út frá í hríngum,
lokkaprúdar sunnu sjó
synda rødul kríngum.

33. Híngad til þad horfd' eg á,
heitir vort sólkérfi,
ljóss hjá geimi lítast má
líkt og púnktur hverfi.

## Otal Sólkérfi.

34. Uní himna glæstan geim
eg girnist leingra ad kanna,
birta ljósin bjørt í þeim
bygdir upphædanna.

35. Sjáſt ei nema ſólirnar,
ſínum fela ljóma
hnetti dimma' er hlaupa þar
í hømlum ſegul=dróma.

36. Stjarna hvør, ſem leiptra lá
ljómar upp, er ſunna;
þó ei reiknaſt þeſsum hjá
þær fyr nefndu kunna.

37. Sunnukérſi ſemur eitt
ſól hvør med plánetum;
ſérhvørt þeirra ſvo er breidt
ſíſt ad fullmælt gétum.

38. Byſsukúlu kaſt ei ná
kyrdarſtjørnu mundi
Sirius, næſtu ſólu blá
í ſjøhundrud árþúſundir.

39. Flokkum ſaman ſinnum vér
ſjølda' af kyrdarſtjørnum;
ſólkérſanna afgrunn er
Adams ſýnt þar børnum.

## Sá himneſki hríngdans.

40. Afram túnglin øll í hríng
um plánetur gánga,
ſvo þær aptur ſól í kríng
ſendaſt vegi lánga.

41. Aptur kríngum ſólna ſól

sólir í baugum renna;
sólna sólir hærra hjól
himinrásum spenna.

42. Hríngleiks gánginn gjørvallann
gétskar einginn lýða,
á Stilbóns *) vángi' er stíga kann
stjarna meingið fríða.

## Vetrarbrautin.

43. Vetrarbraut er saman sett
af sólkérfa milliónum,
fjarlægð af þær falla þétt
fyrir vorum sjónum.

44. Hún að birtist hríngs í mynd,
hugboð það vill styðja:
að hennar byggjum himingrind
hérna því nær miðja.

45. Að mælum þeirrar mikla hjól
mun eilífðar bíða
í hennar baug er sérhvør sól
er sjáum himin prýða.

56. Mælt er sólna sólirnar
segultaums á eyki
ótal kríngum eina þar
aðalsunnu leiki.

---

42 * Stilbón er Merkúríus, Stilbóns vángur: himin.

## Skýríng.

Hid 46ta erindi á svo ad skiljast: menn halda ad sólnasólirnar hlaupi fyrir þýngdarinnar dráttarkrapt (á segultauma hestum) kríngum eina midsól.

Ad vér búum í Vetrarbrautinni, er audsjed af því, ad hún umkríngir oss. Ad vér séum þó ekki midt í henni, er líklegt af því, ad hún sýnist gisnari ødrumegin. Ad allt sem vér sjáum á himninum sé ogsvo í vetrarbrautinni nema stjørnuþokurnar, er skiljanlegt af því, ad þær nálægari sólirnar, vegna þess þær eru nær, glennast hvør frá annari, sjást einstakar og útbreidast um allann himininn; hinar fjarlægari þar á móti hlaupa saman, og hverfa auganu vegna fjarlægdar, en mynda med sameinudum glampa sínum þad glætubelti yfirum allann himininn, er almennt kallast Vetrarbraut, þó allar einstakar stjørnur út um allann himininn heyri henni líka til, þegar hún er hugleidd sem eitt sólnasólakérfi. Þessi ógnar grúi af sólum myndar þá flokk, sem er lagadur eins og þykk kríngla, hvad einnig er samkvæmast gángløgunum, þegar allt skal snúast nær því á einn veginn kríngum adalsólina. Røndin á þessari krínglu verdur þá leingst burt frá midjunni utan vid hverja vér búum, og mynda þá svo kølludu vetrarbraut í þreyngri merkíngu. En flatvegir krínglunnar verda þar á móti nær midjunni, og innibinda þær adskildu stjørnur, er vér sjáum útdreifdar um allann himininn, en innilokast þó af vetrarbrautarinnar baug.

## Otal vetrarbrautir.

47. O hvad Guds er veldi vídt!
víðt svo neinn ei kannar
eilíft kémur afgrunn nýtt
afgrunn fyrra' er spannar.
48. En nú margann bleikann blett
á bláum himni lítum,
„Stjørnuþokur" þessir rétt
því hjá kallast ýtum.
49. Sumar þó ad sjónargler
svo nær augum dragi,
ad lítum sólna grúa = gér
geisla' á dýrdar ægi.
50. Mokkva suma má ei þó
med sjónpípu greida;
óbreyttann í sunnu = sjó
sjáum glampann breida.
51. Eins og þegar þoka fjøll
þekur feldi gráum,
verdur dimm þá vedra høll,
þó vér ei dropa sjáum.
52. Sem jardþokan silfurgrá
sudda dropum lædir,
svo er krøkk af sólum þá,
sú ed himin glædir.
53. Verdur svo þá vídd er næg
frá virda sjónar hvarmi,

úr óteljandi sólna sæg
sameinadur bjarmi.
54. Vetrarbraut ef væri sjær,
víst útlíta mundi
eins og stjørnuþokur þær
þróins fjørni *) undir.
55. Hvør ein stjørnuþoka þá,
þeirri' af líking hyggjum,
vetrarbraut sé víd og há,
vorri lík er byggjum.
56. Augum berum eygt menn fá
um allar rødulgrundir
ad eins tvær *), en samt má sjá
um sjónargler þúsundir.
57. Sem þá mest er síldum af
í søltum þorska lautum,
allt eins morar uppheims haf
ótal vetrarbrautum.

## Odaudlegleiki

stadfestur af heimsins skodun.

58. Þessi bygging himins há,
er hértil nam eg skoda,
fyrirætlan mikla má
Meistarans ædsta boda.
59. Lífid øllu lángt af ber,

54 * Þróin er dvergur, fjørnir hjálmur, þróins fjørnir himin.
56 * Sú eina er í Fjósakøllunum, en hin í Andrómedu belti.

lísi duptið þjónar,
lísi birtan løgud er
líf sér haminn prjónar.
60. Lát ei kinlegt lítast þér
þó lífið hverfa megi;
opt mun ské það utanaf sér
umbúðunum fleigi.
61. Fyrsta sinn í fæðíngu
fleigir hýði þúnga;
gamalla úr gjæðíngu
gánga sjáum únga. 1 Mós. 2, 24.
62. Fær sér prjónað føtin ný
á fylltum ára tugi,
fornu slitin fellir því,
er fjúka lopts um bugi.
63. Lífið þetta lít þú á,
er lýsandi Guðs kraptur;
og þess logann ala má
allur heimur skaptur.
64. Það má nefna ljósa ljós,
því ljósin einginn sæi,
er ekki sínu á þau jós
æðra ljósa tægi.
65. Lýsir fyrir sjálfum sér
sami kraptur einum,
í aðra heima birtu ber
þó biti henni' ei neinum.
66. Hann er aleinn huxun í

herra, og sinn ljósberi;
ødrum dimmur þjónar því,
þó ad styrkinn géri.

67. Ímyndar sér alrúmid
uppi, kríng og nidri;
œrid háleitt á hann svid
eilífdinni' í midri.

68. Ímyndar sér ædstann Gud,
og ætlan fullkomnunar;
eingin veran upphækkud
ædri' í raun framþrunar.

69. Eingin veran abgáng fær
ædstann Gud ad líta,
utan lífs hvar logi skjær
ljósi kann ad bíta.

70. Ætlar líf sig eiga rétt
yfir daudum hlutum;
Drottinn hefir svo tilsett,
sídan alveg nutum.

71. En hid dauda ekki fær
annars hlutar njóta;
adalgagnid ætlum vær
allt ad lífi fljóta.

72. Þennan krapt menn kalla Jeg
í kénndum frœda greinum;
er sú veran undarleg,
ædsta af sképnu, meinum.

73. Adaltilgángs einkénnin

eflaust lífid hefur,
er nú feingum upptalin;
þad ærna vissu géfur.

74. Ei mun Gud sitt adalverk
aptur nidur rífa,
lífid; sú hans stundan sterk
stendur tíd eilífa.

75. Til hvørs fjarska fjøldin skal
fædast, nokkud gladna,
og ætíd þó um aldatal
eins og bólur hjadna?

76. Gud vorn anda' ef áframhald
ei fá seinna lætur,
rødulbanda reist er tjald *)
rétt til einnar nætur.

77. Eflaust væri ónýtt brjál
øll sú skøpun heima,
þó lífs allt bergi skjótt á skál,
ef skyldi øllu gleyma.

78. Onítt verk er útrunnin
æfi spotti naumur;
sem afmád skriftin ólesin,
eda gleymdur draumur.

79. Eda mun Gud ærnum geim
svo ítra skøpun veita,

---

76 * Rødulbøndin, er binda saman sólirnar, eru þ ý n g d-
i n; tjald ofid úr þeim skal þýda himininn.

ı

ef ætladi meira ekki' í þeim,
enn upp lífs bólum þeyta?
80. Ef lífid ekki' ad algjørleik
ædsti leidir fíngur,
hnígur dýrdleg vitskan, veik
í vitskérdínga glíngur.
81. Einnig þad ad mesta mergd
má í æsku deya,
ad alblómgada enn ei fjerd
ætlan Guds, mun segja.
82. Þó fái hrun vid fjørva blund
fólginn muna kraptur,
(sem kurl þá funa fela' um stund)
fram hann brúnar aptur.

## Yfirlit.

Þessi røksemd fyrir ódaudlegleikanum hljódar þannig:

Sú mikla himinsins bygging bodar einhvørja stóra fyrirætlan. En í øllu sem vér sjáum á himni og jørdu er lífid þad ædsta, og allt er þessvegna gjørt, og þad er adaltilgángur alls hins sýnilega heims, því ad:

1) allt þjónar lífinu og má kallast þess umbúdir.

2) Lífid stendur stødugt, en skiptir sjálft um umbúdir sínar.

a) Í fædíngunni fleigir þad utanaf sér sínu fyrsta hýdi.

b) Þegar þad er stálpad ordid, ýfirgéfur sú lif-

andi sképna foreldra sína eda fóstursoreldra, sem voru lífsins sunur umbúd.

c) Á hvorjum 10 árum æfinnar smáslitnar og gusar út allur þess líkami, svo ekkért verdur eptir; en nýann líkama prjónar þad jafnódt aptur. Eins hefir þad hjálpad til í módurlísi, ad þess líkami yrdi myndadur, því ef fóstrid deyr, fullgjörist ekki líkami þess.

3) Lísid má kallast ljós, eda lýsandi kraptur, er logar á alheimi.

a) Þad er ljós, ljósunum ædra, því ljósin væru oldúngis ósýnileg án þess.

b) Þetta ljós (lísid) lýsir ekki út frá sér, heldur ad eins inn á vid, eda fyrir sjálfu sér. Hugarins og tilfinnínganna ljós gjörir bjarta fyrir sér, jafnvel adra heima, þó einginn sjái þad ljós nema lísid sjálft; hvad ed sýnir ad lísid sé sjálfs síns vegna skapad, en ekki annara.

c) Hvor lifandi vera virdir mest sitt líf, þarnæst hvorrar annarar lifandi veru, en ekkért hid dauda, nema sem eign hins lifanda, hvad ed bendir til þess, ad lísid sé hid ædsta í heiminum.

4) Þetta ljós, lísid, nær jafnvel til þess ósýnilega og eilífa, því

a) lísid skodar og ímyndar sér ekki einasta rúmid, heldur og alrúmid, ekki ad eins tídina heldur jafnvel eilífdina,

b) ímindar sér þá ædstu veru Gud, og fullkomnun-

ar áformid edur algjørlegleikann. Þetta sýnir lífsins háu ákvørdun.

5) Eptir Guds rádstøfun fer lífid med daudu hlutina eins og sína eign, og nýtir sér þá, og nýtur þeirra; þar á móti nýtur hid dauda ekki hins lifanda, og ekki sjálfs sín.

Sérhvør týra af þessu ljósi adgreinir sig frá øllu ødru, og kallar sig í huga sínum: Jeg.

Þannig væri þá heimurinn einkisvirdi, ef ekki væri lífid, þá flýtur þar af, ad þad er Guds a d a l v e r k, og þetta hans adalverk verdur eilíft ad vera.

En ekki sýnist lífsins áformi vera fullnægt þó þessar smátýrur lífsins séu ótølulegar, bædi samtída í þeim ómælanlega alheimi, og líka hvør eptir adra um alla eilífd, ef sérhvør þeirra ætti ad slokkna aptur.

Þessar sløkktu týrur yrdu þá til einkis, eins og gleymdur draumur eda útþurkud skrift, sem einginn hafdi lesid; þar allar týrurnar lýstu mest inná vid, minna innbyrdis en alls ekkért fyrir daudu. En séu týrurnar daudlegar sjálfar, þá er innbyrdis lýsíngin einber óþarfi; og því stærri óþarfi, sem alheimur er stærri.

Ad kveikja þessar smátýrur snøggvast, einsog sé verid ad þeyta upp bólum, ad gamni sínu, en koma þeim ekki til fullkomnunar, þad væri líkast vitskérdtra manna athæfi, sem birja á mørgu efnilegu verki, en hafa ekki ráddeild eda stadfesti til ad fullkomna neitt af þeim. En hugmyndin um algjørlegleikann bendir til ad

lífið gjæti tekið á móti óendanlegri fullkomnun með ó-endanlegri eilífð.

Það, að menn burtkallast á öllum aldri, jafnvel mest á únga aldri, já í móðurlífi, sýnir að fullorðins-aldur eða menníng hér á jörðu sé ekki aðaláform Guðs, heldur sé hið eginlega líf ósýnilegt og eilíft. Þarfyrir eru öll líkindi til, að lífið komi einhvörn-vegin í ljós aptur, þó það hverfi í dauðanum.

## Lífsglæðíngin

á vorum hnetti.

Lýsíngar tilraun.

83. O, að fagrann findum þráð,
og feingjum hann útskýra,
eptir hvörjum eilíft ráð
oss mun kunna stýra!

84. Þó margbreitt bæði' og mjög sé hátt,
hvað mannleg þekkíng geymir
samt má finna að ein er átt,
elfan til sem streymir.

85. Guð að lífið meti mest,
má af öllu sanna,
vitnar hvað í veröld sjest,
vitna ljós himnanna.

86. En hvað líf er, einginn veit,
utan sá það reynir;

trøppuſtig þeſs telur ſveit,
til ſem eilífd greinir.

87. Ædſtu meigum undra þá
alúd, ſem Gud brúkar,
liſta = rød ef litum á,
líſi manns er hjúkrar.

88. Svo þar ný ad lifni líf,
lagleg áſt má þjóna;
kallar ſaman karl og víf
kjærleikurinn hjóna.

89. Vort er líſid veikt um ſtund,
vørn umbúdar krefur;
af liſt þad reifar líknarmund,
lagt hvar fóſtrid ſefur.

90. Vordid manna medfæri,
af módurlíſi er hrundid;
fadm því breida fagnandi
fadirinn og ſprundid.

91. O Gud, hvørnig megnar mold
þá megin = rækt ad vinna?
gégnum mannlegt heyri' eg hold
hljóminn elſku þinnar.

92. Dreingir lofa dád þá nú,
ſem drýgja þjódir velſkar *)

---

92 * Hér er einkanlega meint til gufugángverkanna hjá þeim Enſku; en partur af Englandi heitir Wales, Veles; þaraf leifir høfundurinn ſér ad nefna þá engelſku Velſka, þó Italiſkir og Franſkir ſéu einkum nefndir med því nafni.

en gétur smíðað gumi þú
gángverk það sem elskar?
93. O hvað Guð þín elskan má
ómetanleg skarta! Sálm. 94, 9.
þér eru smíðin fögru frá
föður- og móður-hjarta.
94. Foreldranna í fyrstu er
fædda jóð handbendi,
þeirra að mentun safni sér,
og sál til dygða vendi.
95. Drjúgum líf nú dafna má,
dugurinn hug upp tendrar,
færir það úr fati þá
foreldranna verndar.
96. Sjálft það annast sitt nú gagn,
sömu spurn má þylja:
hvaðan fær það moldin magn,
svo mjög sig annast vilja?
97. Ei þá sjálfir eigum hnoss,
elskuna, sem um ræðum;
heldur er það sem elskar oss
sá Alvaldi á hæðum.
98. Fullkomnunarfýsn með virkt
frægð oss bauð umgreipa;
fær til þessa hvatt og hirt
heiður bæði' og sneypa.
99. Samvitskan oss ljósið ljær,
lífs til öld svo renni;

eins og fadir áminnt fær
Andinn Guds í henni. *)

100. Hann er ljósid hér á stord,
helgun vora greidir, Róm. 8, 14.
hann oss kénnir heilagt ord, *)
hugsan bænar leidir. Róm. 8, 26.

101. Hann oss opnad himin fær *)
í hjartad il útbreidir,
hans en blída huggun skjær
hørmúngunum eydir.

102. Laun og hegníng lýdum hjá
lífid einnig glæda;
vitska í breytni vaknar þá,
verdur ad ljósi gjæda.

103. Vitska í breytni' er virdum líf,
vídfleyg sjónin hugar,
móti grandi hjálp og hlíf,
sem holdinu auga dugar.

104. Mentun standa má því røm,
marmara trúrri' enn kløppin;
eilíf Guds er elskan som, Jak. 1, 17.
eins vid laun og stroffin.

105. Af elsku *) skóp oss Herrann hár,
þó horfd' á synd ógjørdu;

---

100 * 2 Tim. 3, 16. 2 Pét. 1, 21. 101 * gefur trúna, ** kv.ykir elskuna. 105 * Einginn sjálfrádur býr þad til sem hann hatar; en hafi Gud elskad manninn, þegar hann skapadi hann, þá elskar hann hann ad eilífu, því Alvitskunni gétur aldrei hugur snúist.

um eilífd sem því elskan stár,
eins vid refsing hordu. Job 5, 17.
106. Ritníng helg þó rædir sann
um reidi Guds, sem væri,
rétt því syndum refsar hann
reidur líkt og væri.
107. Hvørt af reidi*) refsar hann,
réttri eda speki,
uppá sama koma kann,
kénnir á líkt hinn seki.
108. Samt er huggun hérí ein,
helgust manna sonum:
ad ógjætninnar ekkért mein
óttast þarf af honum.
109. Elskan stýlar einsaman
alla hegninguna;
ofmjøg hlífa ekki kann,
og aldrei kémst í funa.
110. Æ sú stendur elskan bygd
á Alvitskunnar fjøllum;
henni eingin haggar stigd,
hún því sá nær følllum.
111. Hún ad skøpun hætti' ei þó,

107 * Allir lærdir þekkja mannlíkingar, (Anthropomorphismus, Anthropopathia), hvar talad er um Gud eins og hann væri madur, t. d. um hans hønd, fíngur, (er þýdir mátt) hans ydran, reidi, (er þýdir hegningu) og svo fr. Þetta er gjørt sumt til fegurdar og sumt til ad laga sig eptir óupplýstra skilningi.

hermą kann oss þetta:
ad ekkért syndin áfall bjó
áforminu setta.

112. Alvitskan fyrst umbreitíng
aungva gétur feingid,
eilífdar fær allann hríng
elsku sólin geingid.

113. Réttlætis *) því reglan skjær
rød þér sýnir lánga;
í þeim stiga þú óhult fær
upp og nidur ad gánga.

114. Brot med ángri ef brjóstid slá,
og betrar trúin hjarta, 1 Jóh. 4, 10.
í endurlausn Gud opnar þá
elsku fadminn bjarta.

115. Gud oss elskar eilífd frá,
eins nær synd oss kvelur; 1 Jóh. 4, 10.
sjálfur fórn oss sendir þá, Rómv. 3, 25.
Soninn einka velur. Jóh. 3, 16.

116. Fórnin sýnir sáttarhót, Rómv. 5, 8.
samvitskuna grædir, Hebr. 9, 14.

---

113 * Gud endurgéldur jafnvel í þessu lífi: 1) med samvitskunnar dómi, 2) med því ad hafa gródursett sannleikssýsn, réttarfýsn og endurgjaldsfýsn í hjørtum manna, 3) med því ad þreyngja þjódunum til ad setja sér sjálfum løg og endurgjalda eptir þeim; 4) med daglegri reynslu; þarfyrir verdur sá reyndi madur hyggnari enn sá óreyndi, og menn géta smídad sér høfudreglur af reynslunni.

síðan Fodur-sáttum mót 2 Cor. 5, 20.
Sonar elsku glædir. Rómv. 8, 15.
117. Elskan léttir logmálsboð, 1. Jóh. 5, 3.
leggur synd á flótta, 1 Jóh. 3, 6.
greiða bænir Guðs aðstoð, *)
gjørast þær án ótta. Eph. 3, 12.
118. Hefir svo kénnt og kvøl sig pínt
Kristur af ást tildreginn, Jóh. 15, 13,
þannig lagt og sjálfur sýnt
sáluhjálpar veginn. Jóh. 14, 6.
119. Ofan synda ókjør mín
á íllviðranna svæðum *),
elsku sólin eilíf skín
uppí dýrðar hæðum.
120. En eg kunni ekki sjá
elsku sól þá bjørtu,
misgjørð því að milli lá, Es. 59, 2.
myrkri birgði svørtu.
121. En þín frelsun, ó Jesú!
øllum djørfúng býður,
skýin sundur skilur þú,
að skíni røðull blíður.
122. Af þínum styrk eg megna margt, Phil. 4, 13.
má og heiminn vinna *);

---

117 * Lúk. 11, 13. Jak. 5, 16.
119 * Á syndarinnar hørmúngalandi, sem er gagnstædt dýrðarinnar hæðum.
122 * 1 Jóh. 5, 4. Jóh. 16, 33.

allt er fært, og allt er bjart,
af yndi' er børn Guds finna. Rómv. 8, 15.

123. Himin brosir hátignar,
haudur gledi rómar,
eingin túngan útmálar
elsku Guds, þá ljómar.

124. Hefdi Jesús hér ei kénnt,
ad heiminum Gud svo vægdi,
ørvæntíngin upp þá spennt
allri tilraun bægdi.

125. Mispekkt høfdu menn þar ad
mjøg svo Guds réttlæti,
ad hefndargydju héldu þad,
er hørdum klett á sæti.

126. Yfir megn ad heimti' ei hann, Sálm. 103,14.
hermir nád sú ljenta; 1 Jóh. 2, 1.
líkt og vitur vægir mann
vidvaníngi menta.

127. Á mentun ædsta midar þá
miskun og réttlæti;
svo heilagleikans hædum á
hljótum tignar sæti.

128. Hvada nafn þá hæfir þér?
Herra? — þræl frelsadir*);
Kóngur? — þó en kaldt þad er,
kémst þér næst: vor Fadir. Matt. 6, 9.

128 * Frá þrældómi syndarinnar til frelsis Guds barna. Jóh. 8, 34. 36. Rómv. 6, 16. 8, 21.

129. Einginn syndga mádur má
miskunar þeirrar vegna;
„veit eilífa Virskan þá
ad vægja bædi' og hegna."
130. Heiløg rødd sú hørd og blíd
af Herrans krossi dunar;
hótar sú þeim lasta lýd'
leid sem girnda brunar. Hebr. 10, 26—30.
131. Ef fórnin þarf svo fjarska dýr,
og feyknar kvølum sæta,
syndin ógnar sekt oss býr;
sannlega ber þess gæta. Gal. 2, 17.
132. Ottast Gud því mátt, ó mann!
mundu ad vel athugir:
ad ekki gjörir hálfverk hann
hegnir hann svo ad dugir.
133. Endurlausn er lausn frá synd, Tít. 2, 11-14.
lausn er hún sisk frá aga, Heb. 12, 5, 6.
hugsi aldrei heimskan blind,
ad hlífi oss Gud til baga.
134. Og því sídur hlífist hann
hegning vid ad gjalda,
sem ástin hans mun einsaman
á agavendi halda. Ordskv. 13, 24.
135. Séti' ei vakid guddómlig
gjædska' er tárin feldi *),

135 * A Golgata.

vita skalt hún vekur þig
í vítis heitum eldi.

136. Hví mun skipuð skylda vønd?
það skulum vér nú segja:
víst ei þarf Guðs voldug hønd
verkafólk sér leigja.

137. Máttur sképna ei megnar par,
mætti Guðs svo létti; Postg. b. 17, 25.
en til lífsins æfingar
ætlunarverk Guð setti.

138. Eingla þó einn drýgði dáð,
Drottni' ei gagnið ynni;
æfíng tóm er allt og náð *),
eins og barn þar vinni.

139. Løgmál vegna mannsins mun,
en maður ei løgmáls vegna, Mark. 2, 27.
eptir þeirra ákvørðun
ætlun sýnist gégna.

140. Heldur ei svo haldist við
hølda milli friður,
lífsins aðill løgmálið
lét í hjørtun niður.

141. Lífs ef nauðsyn laungum þrá
lypti' ei spennifjøðrum,
rekkar þyrftu' ei rekast á
réttar sviðs á jøðrum.

142. Hefðum ei fullt í fángi vér

138. Matt. 20, 1—16. Lúk. 17, 10. Eph. 5, 1. Matt. 5, 45. 48.

ad fylla þad oss bæri,
ætlunarverkid okkar hér
oflítid þá væri.

143. Ad glíma vid sér minna mann,
má ei framfør veita,
en jafnínginn ørfa kann
allra krapta' ad neyta.

144. Ætlunarverkid okkar þó
á ad vera stærra,
æfíngin því áfram dró
og alltaf þokar hærra.

145. Herdum skeidid helgunar,
þó hljótum sjá hid illa *);
aldrei hér oss ætlad var
allt løgmálid fylla. Job 4, 18.

146. Viljir þú minn vinur sjá,
vér þad hvørnig sønnum,
endurlausnin eilífd frá, Eph. 3, 11.
ákvørdud er mønnum. *)

147. Aldrei Vitskan ætlar sér
annad enn þad sem verdur;
og um manninn vitum vér,
ad vextinum er af gérdur.

148. Framfarar — ef firdar — magn
feingid hefdu þeigi,

145 * Phil. 3, 12. 2 Pét. 3, 18. Hebr. 12, 1, 2.
146 * Róm. 11, 32. 2 Tím. 1, 9.

løgmál oss ei gérdi gagn,
gjætum þróast eigi.
149. Lífinu magn þad leidbeinir
(lít þann eingil gjæda!)
um eilífdanna eilífdir
upp til ljóssins hæda.
150. Lít, ó madur, lífsins tign!
Lausnara þakkir tjádu!
opna hugskots augun skygn!
elsku Guds nú sjádu!
151. Lát þann eingil leida þig
um lífs hérvistar stundir!
þá mun dýrdin sýna sig,
sem ert búinn undir.
152. Viljirdu gánga vitsku stig,
og verda kórónadur,
einhvurntíma ættir þig
áfram herda, madur!
153. Dygdin hátt upphækkar líf,
helgun menn ef vanda,
stórum þegar stælir kíf
strídid holds og anda.
154. Holdid ekki held eg spillt, Matt. 26, 41.
en heimti blindt náttúra; 1 Mós. 3, 6.
líkt eru dýrin løstum tryllt,
lifa med úlfbúd súra. 1 Mós. 1, 31.
155. Ef hold vort aldrei anda mót
ættartánga bæri

af dygd hér taldri' ei sæmd var sjót,
sofandi gánga *) væri.

156. Á því dygd ad æfast hér
af ørdugleika þessum;
eptir strídid endad vér
allt þá lífid blessum.

157. Þegar ekki þreytt er stríd,
þá er einginn sigur;
af krapta' áreynslu kémur í lýd
kjarkurinn dásamligur.

158. Gyrndir vinna' ei gagn þad eitt,
er gjørdum nú um tala;
líkama þær líf fá veitt,
líkna, vernda' og ala.

159. Margopt skédur meigum sjá,
menn þó skyldum gleymi,
ad stjórntaumana' ei strídir á,
Stýrir alls í heimi.

160. Þegar Gudi þóknast ei
ad þraungva vondum lýdi,
sjer hann betra ad símbulsley
fram sem horfir skrídi *).

161. Reynslunnar ef rækjum vott,
réttvel gétum fundid:

---

155. *Somnambulismus.* Kraptanna stríd midar einmidt til ad vekja lísid.

160 * Es. 55, 8. 9. Matt. 13, 29.

ad er á sporðum íllt og gott
einatt samanbundið.

162. Skilníngsstréð ef bærist brott,
bjørk lífs følnuð stæði;
að vettugi hast þá verður gott,
ef vondt er ekki' øðrum þræði.

163. Gjætum þess hið illa er
ætíð vøntun gjæða;
áður enn þessi eignumst vér,
á oss þorsti mæða.

164. Herrans gjøf er hvørgi þá
heimskan sem vér drøgum;
hún vort óðal eilífð frá *)
er með réttum løgum.

165. Hennar dóttir sønn er synd,
sjálfir hana eigum;
móður fylgir fóstur kind *),
finna rétt það meigum.

166. Rétt að hugsa ríður á,
rétt að elska líka,
rétt að megna', ef móti þá
mælir girndin ríka.

167. Vitska, elska' og viljans megn
vinna dygð og glæða;

---

164 * Eins og oss frá eilífð vantaði tilveruna, svo vantaði oss einnig vitskuna; en vøntun vitskunnar er heimskan. Þess-vegna er heimskan vor frá eilífð, og vora heimsku hefir aldrei annar átt. 165 * *Partus seqvitur alvum.*

sé vort þessum sinnid gégn,
svo er þar vøntun gjæda.
168. Sérhvør þegna', er syndga vann
síns í huga rennu,
verdur ætíd vanta þann
ad vísu eitt af þrennu.
169. Vøntun þessi meidir mann
med samvitsku stíngum,
af því valdid ei fékk hann
yfir tilhneigíngum.
170. Einsog fyrr er ætíd þjód,
enn sér løgin setur;
girndar ádur vald fram vód,
enn vitid stjórnad gétur.
171. Alpa girndir óvit med,
eins og skríll er gérdur,
uns ad skadi skiljast réd,
og skinsemi drottníng verdur.
172. Greinarmun þann gjøra skalt:
gét eg hann aldrei skeiki,
sakleysid er sumum valt,
situr heilagleiki.
173. Sakleysis hin mæra mynd
megnar ei neitt vid skordast, 1 Mós. 3, 6.
heilagleikinn hatar synd,
hana kann því fordast. Matt. 4, 10.
174. Eins og bókfell óskrifad
er sakleysid tóma;

ákvørdun nær ekki þad,
ef ei fær vitsins ljóma.

175. Grein ad læra góds og ills
Gud oss ætlad hefir; 1 Mós. 2, 9.
Kristi dæmid vørn er víls,
vissuna þar um gëfur.

176. Kantú sjá ad Kristó var
kunnugt þad hid ílla;
og sú vitskan ávøxt bar,
ad eingin tældi' hann villa.

177. Heilagleikinn hatar íllt;
hann þad gjæti þeigi,
væri svo hid vonda skýlt,
ad vissi hann þar um eigi.

178. Þad hid ílla þekkja fyrst,
þurftu menn ad læra,
ad helgun sína þjódin þyrst
þædi sídan kjæra. Matt. 5, 6.

179. Þad hid ílla ef þekkja skal,
þurfum fyrst ad sjá þad,
annadhvørt á ødrum hal,
ellegar sjálfir tjá þad.

180. Ytum nægir ei med því,
ad hjá synd þeir sleppi,
ef heimskan situr hjørtum í,
er henni máské ad këppi.

181. Ef Adams hefdi' og Evu dygd
eingin reynslan metid,

heimskan søm í hyggju bygd
hefdi fólgin setid.

182. Svo hún yrdi sjen vid ljós,
sendast raunin átti;
þar af kunni karl og drós
kynnast vit hvad mátti.

183. Í alheimsstjórnun ekkert slis,
vid A d a m s fallid skédi;
heldur einmidt áleidis
áframhald þar rédi.

184. Er Guds sképna øldúngis
ekki' úr lagi geingin*);
henni stjórnar høndin viss,
en hendíng slisa eingin.

185. Lýdir hljóta lærdóms til
á ljótri heimsku falla,
lærir hvør ein sképna (eg skil)
af skada hyggni alla.

186. Ellegar hljóta ófarir
annara þar um fræda,
ýta hvørra oss fyrir
undir verda' ad blæda.

187. Gud upp tídar vindur vef,
vitsku til ad glæda;
því ef reynslu gaum eg géf,
gjørir hún best mig fræda.

184. *) Heimurinn er ekkért smídaskrifli, er høfundurinn skyldi hafa sett frá sér, þá smídad hafdi.

188. Vøntun gjæda verdur því
á vitsku dúki þanda,
hans þeim fyrri enda í,
til uppfrædíngar standa.
189. Eingin þurfti eilífdar —
eda tídar — gánga,
ef alfullkomnan ætlud var
oss í vøsdum stránga *).
190. Lætur Drottinn lauk á fold
af litlum vísi gróa,
og ysrid seint hans aukast hold,
uns ad blómstur glóa.
191. Svo' er allt líf, og sálin manns,
sér ei mjøg þad flýtir,
góda mundin gjafarans
gáfunum lángsamt býtir.
192. Hví svo haga Vitskan vann?
vel má sumt um hyggja:
ad gési ei fyrr enn girnist mann
gjøfina feginn þiggja.
193. Þó vér gjædum ædstum ad,
á augabragdi stykkjum,
ei nóg dýrmætt yrdi oss þad,
óþyrstir vér drikkjum. Matt. 5, 6.
194. Djúpann svásum dúrinn vér,
daudt þá vórum efni;

189 * Vitskan er ætlud til ad lærast, en ekki til ad skapast í mann heil, eda í einu.

vor ad hálfu voknud er
vitskan af þeim svefni. 1 Cor. 13, 9.

195. Hér af leti, heimskan blind,
og holdsins tregda kémur;
heimskn fólgna sýnir synd,
og súta hríslan lemur.

196. Hún skal vekja af heimsku blund,
hyggnir svo menn verdi;
og hvetja hina løtu lund,
svo lífid krapt sinn herdi.

197. Heimska, freisting, syndin, sút,
er sannur píslar vegur;
en loks úr myrkri leidir út,
í ljósid vitsku dregur.

198. Freystíngin, er nefndum nú,
notin sønn kann veita,
yfirheyrsla ætti sú
í æfing vitsku heita.

199. Okénd gjædi aungvum fá
ørfad lysting beimi;
svipuna ills því meingi' ei má,
missa fyrst úr heimi.

200. Líkt sem borg í lopti ei má
laus frá jørdu hánga;
hvíla gjædin íllu á,
ef þau skulum fánga.

201. Illu frá, nær þekkir þad,
þjódin birtu flýr í,

laung svo eilífð liggur að
ljósinu sem Guð býr í. 1 Tím. 6, 16.

202. Ymislegt þó ofs í heim,
ófullkomið mæti,
er hið sama ætlað beim,
að það sjálfur bæti.

203. Hestinn temja hljótum vér,
og hold þá girndir æða,
menta barn sitt manni ber, Orðsk. 22, 15.
úr málmi sorann bræða.

204. Þó menn sínu eðli í
ymsann sora finni,
ber þeim sjálfum bæta úr því,
að björgun líf sér vinni.

205. Ætlaður manni aldrei var,
algjörleiki' í fyrstu,
heldur orkan umbótar;
á það líta virðstu.

206. Annars mundi ekki veitt
ofs framfarar magnið,
og reynsla, sem fær lýði leidt,
lífi færði' ei gagnið.

207. Algjörleikann eilífa tíð
eigum vér að læra;
mundin Guðs svo megnar lýð
að marki settu færa.

208. Orðugleikinn allskonar
einmidt krapta nærir

aptur líffins blíðan bar
birtu, er hrefsíng færir.
209. Eins Guð dýrum ablraun bjó,
allt er mælt og veigið,
manninum ætlað meira þó,
er mest hefir krapta þegið.
210. Old án mæðu ei sér slá
undir Guðs hønd færi,
þolinmæði' í þrauta stjá
þæga skin ei bæri.
211. Praut sem líðum meiri, ei mun,
enn móti kunnum berjast,
ein er líffins ákvørðun,
íllu læra' að verjast.
212. Þó mæti hvørt það mótlætið,
sem má í heimi víðum,
himna føðurs hlíðina við,
hræðslulausir stríðum.
213. Vondt ef ekki væri' í heim,
vissum ei Guðs að þyrftum;
í faðminn skunda' á føður þeim
framar ekki hirðtum.
214. Vort sem barndóms vanmættið
við foreldra bindur,
eins hið vonda óhæfið
oss að Guði vindur.
215. Ef kynnum ei um kvalníng ílls
kénna okkur sjálfum,

heldur eikar yggdrasíls
aumum byggdar hálfum.
216. Mundu þá ei meidar seims
meinin þeim um kénna,
er gródursettann hefir heims
háfann pálma þenna?
217. Hans þá mundu hjálpar síst
í hørmúngunum leita,
hann sinn óvin héldu víst,
er hatri mundi beita.
218. Á elsku Guds ef vill ei vel
vermast lífs apaldur,
er hans blóminn allur hel
eins og þviti kaldur.
219. Gud er sjálfur lífsins lind
láng=tæruſt hin fyrsta,
til uppsprettunnar efst á tind'
á því mann ad þyrsta.
220. Ef háski sá, er hótar synd,
hefdi ei mátt sig sýna,
elskan Guds í ædstu mynd
ei þá kunni skína. Jóh. 3, 16.
221. Detta leid oss Drottinn þá,
og dýrdlega reysti á fætur,

---

V. 215 og 216. Ef vér ekki gjætum kénnt oss sjálfum um hid illa sem kvelur oss, heldur bústad vorum heiminum, þá mundum vér kénna Gudi um þad, þar hann skapadi heiminn. Yggdrasils=askur í Eddu er heimurinn, samlíktur vid tré.

svo heimurinn síðan høgunum á
hefði meiri gjætur.

222. A æfiskeiðs þá veltum váng,
varúð kénnir þetta;
aldrei lærir æskan gáng,
ef aldrei fær að detta.

223. Skuli verða reynslan rík,
og rétta speki fánga,
hlýtur øld sér aldrei lík,
ymsa vegu gánga.

224. Þegar heims af søgðum síð
siest hefir allslags tægið,
reglufagra Réttlætið
rétta sýnir lagið.

225. Skammar kransi skømmin krýnd
skal til sýnis vera,
og svo verøld allri synd
áminníngu géra.

226. Ef áminníngar ekki hér
af annara feingjust vítum,
allt að reyna' á sjálfum sér
seinlegt mundi ýtum.

227. Iðju skipta ýtum bar,
að sér vinnu létti;
ýmsir reyna ísinn þar,
svo allir ei niður detti.

228. Einsog félag um vorn heim,
út fór skarinn manna,

vitskufjallsins *) vídann geim,
vid þess rætur kanna.
229. Þad sem nefnum vitsku vér,
er vitur stundan gjæda; Job. 28, 28.
ættarsvipinn á sér ber
af Alspekinni hæda.
230. Ef allir geingju eina leid,
einginn hinar sæi;
mannleg vitska' á myrkra heid'
í mjóum einstíg lægi.
231. Verøld í ef viljum hér
vitsku leidir kanna,
hennar dæma hljótum vér
hyggni gángstiganna.
232. Héradsdómur heita má,
(eg held þá líking sæma)
er egin breitni ýtar ná
og annara líka ad dæma.
233. Sjálfir fyrst þó dæmum djarft,
svo drótt vegskíma ljómi,
lángtum framar lærist margt!
lýdum af efsta dómi.
234. Ur øllum heim nær allt dæmist
af Jesú, má gitska:
ad ósegjanleg ablast fyrst
øllum mønnum vitska.

---

228 * Vitskufjall er hér vitskan sjálf samlíkt vid fjall. Rætur þess er þad af vitskunni sem kannad verdur í þessu lífi.

235. Mun þá serhvør meiníng raung
af Meistara hljóta frædslu;
en tómlætinu typtan straung
tilbýr rétta grædslu *).

236. Grein margbreitt *) sem gjørist þá
gløgg á farsældinni,
ýtarlegast ørsa má
eptirtekt og minni.

237. Ohøtud, en sjen þó, synd
sitt fær brennimerkid,
svo audkéndur svidi og mynd
sjálft á hendi verkid.

238. Á tilfinnan, svo mínki mók,
merki Drottinn setur,
ad standi líkt og stafur á bók
stýlad vitsku letur.

239. Ekki slokknar eldur sá,
einnig vitskan brennir, Jóh. 3, 20.
andvaralaus þann missa ei má,
magnar hann líf *) og spennir *).

240. Ef ei kveiktur eldur sá
upp þá vakid gjæti,

---

235 * Lúk. 12, 47. Matt. 7, 21 — 23.

236 * Róm. 2, 6 — 12. Matt. 25, 31 — 46. 1 Kor. 15, 39 — 42. Matt. 11, 22 — 24. Lúk. 12, 47. 2 Kor. 9, 6.

239 * Es. 26, 16. Jafnvel heidingjar hafa hitt á, ad annars heims hegningar gefa bædi vitsku og gódann vilja. Virg. Æn. 6, 620. * Lúk. 16, 27 — 30.

eilífur dauði dapur þá
dróttum yfir sæti.

241. Eilífur dauði ætlum vær
að rétt nefndur heiti,
ef aldrei maður orku fær,
er ákvörðunar leiti. Eph. 2, 1. 5. Sól. 2, 13.

242. O hvað vitskan orkar skýr
í alvöru rúnum skráða! Es. 26, 16.
ørfar sú og undirbýr
alla menn til dáða. Lúk. 16, 27—30.

243. Undir **køllun upphæðar**
á sú vitska að búa;
øll skal þjóð til iðjunnar
alldar nýrrar snúa *).

244. Hvørjir þá vel stæðu' í stétt,
og stund á dygðir kjæmu,
skjótt mun vegið skarpt og rétt
á skálir meta næmu.

245. Eða mun Guðs ekki þá *)
eins réttlætið skína
og miskun, hvøreð øldum á
ei kann geislum tína?

246. Eða mun Guð ekki dygð
aðra vilja meta

243 * Matt. 25, 21 — 23. Lúk. 19, 17.
245 * Sálm. 136, allr. Es. 57, 16. Sálm. 103, 9.
Mich. 7, 18.

enn hérná gjørda heims í bygd?
hvad þá einglar géta? Matt. 6, 11.

247. Eilífdar eg aldir rek,
allt er gjædsku kédja, 1 Jóh. 4, 8.
svo græt vitska og sálar þrek
ad svidar agans gledja *).

248. Ad hafa unnid agans til,
aldrei þad samt gledur;
en þad geingur eina í vil
ad af honum mentan skédur.

249. Ydran laung sú aldrei græt,
er abladi tíd burt runna;
samt þeim gledi góda ljær,
gott ef stunda kunna.

250. Þó víti skamtist háska heitt,
og hegni eilíflega,
Gud vid betrun gétur veitt
gjædi' er móti vega. *)

251. Eingin miklast óskøpin
almáttugum Drottni,
ad eilífa hans orka svinn,
þau ótal bæta þrotni.

252. Eilíf hegning annad mun

247* Hebr. 12, 4 — 11. Sálm. 145, 14,

250* Til þess ad mótmæla ekki Ritningarinnar bókstaf, en géta þó vidkomid hugleidingunni um þann eilífa kjærleika og réttlæti, þá segir kvædis høfundurinn þetta, og fleira eptirfylgjandi.

enn útskúfun fullgérda;
algjørleg kann útskúfun
ei frá Drottni verda.

253. Utskúfa Gud aungvum kann
frá ætlunar setta merki;
ei þarf kasta hjólum hann
heims úr sigurverki.

254. Høfudtilgáng hygg eg þar *)
hegníng aldrei vera;
heldur medal mentunar
mann fullkominn géra.

255. Mun Gud skapa sképnu kind
í skélfíngar þá røtun,
ad hún fyrst í søkkvi synd,
og svo eilífa gløtun *)?

256. En þó sumum hafi hann
hegnínguna' ákvardad,
þeim hid góda Forsjón fann,
ef frelsun þeirra vard þad.

257. Athuga þeim unnt sé hljóds:
Alvís skapta lætur
adgreiníngu ills og góds,
eins og dags og nætur *).

---

254 *) 2 Pet. 3, 9. 1 Tím. 2, 4. Es. 18, 23. 32. Es. 33, 11. 1 Tess. 5, 9. Sálm. 145, 9. 10. Mich. 7, 18. Sálm. 103, 9. 255 *) Þar hann sjer allt fyrirfram þegar hann skapar hana.

257 *) Hid illa er uppá sama máta framkomid sem nótt-

258. Er þad Drottins áſett rád,
ſem alla veit fjárſjódu
ad eilift ſkundi ýtar lád *)
illu frá mót gódu.

259. Er ſvo líſid ætíd nýtt,
ætíd betra' og betra,
einsog á vorin fagnar fríbt
fyrríng køldu vetra.

260. Alheimsfesting einnig mót
útſkúfunum rædir;
ófarſæld má aukaſt ljót,
eymd ſem fleiri mædir.

261. Því meir himin þjódin ſjer
þaktann ſtjørnu grúa,
þeim mun fleira úrkaſt er,
ef útſkúfun má trúa.

262. Heims ef fáum gjørla gád,
þar gumar ſtørſin eiga,
er ſvo ſléttad eilíft rád,
ad útſkúfaſt ei meiga.

263. Vondra þurfti vorunar,
ſvo vektuſt dádir ſvinnar;

---

in. Nóttin er vøntun ſólarljóſsins, hid illa er vøntun and-
lega ljóſsins.

258 * Skeidvøll.

260. Himininn mundi glata ſinni fegurd, ef hann ſkyldi ſjelga
þeim eiliflega ófarſælu.

orsøk finnst því eingin þar
útskúfunarinnar.

264. Adkall hefdi aungva dád
ef eingin refsíng væri;
en eingin refsíng yrdi hád,
ef eingin synd vidbæri.

265. Ef virdum hardt til varúdar
væri ei reffad stundum,
ordin løgmáls ekki par
akta þá vér mundum.

266. Oss á dæmis advørun
er því naudsyn heldur,
sem girndin ein þá ginna mun,
Guds ef ótti' ei veldur.

267. Hid góda verka, í øllum eins,
ekki Drottinn mátti, Eph. 1, 4.
því dæmid feingi ei dug til neins,
er draga lífs til átti. Fil. 2, 18. 2 Kor. 3, 5.

268. Allir jafnir yrdu þá,
en einginn lífid hreppti,
daudinn lægi dapur á,
dugnad allann hepti.

269. Ad adra leidi á undan Gud,
en adrir seinna fari,
eru svo rádin ákvørdud,
áfram kémst þá skari. 2 Tess. 2, 13. 1 Pét. 1, 2.

270. Ad andans gjøf svo ójafna

allt mannkynid þádi *),
eigna má því eilífa
Alspekinnar rádi.

271. Hann eitt kérid heidurs til,
hitt þar lægra setur, Róm. 9, 21.
þó med sínum ástar il
eins þau bædi metur. 2 Tím. 2, 20. 21.

272. Menn sem anda móti slá,
miklu sæta banni;
lofad villast ljósi frá,
svo loks þeir komi' ad sanni.

273. Gódi kristni gjæt þess mann,
gjædska Drottins þad er,
og ad viltra einnig hann
er elskuríkur Fader.

274. Honum lítst um litla stund
lofa þeim ad villast,
sídar rétta mun þeim mund,
er meiga til adhyllast.

275. Einmidt hegníng er sú mund,
er þá kann leidrétta;
þó ad sárt þeim svídi und,
samt er heilnæmt þetta.

276. Vitskan máta valdi þann *),
svo veit Réttlætid skína,

270 * Róm. 12, 3. 1 Cor. 7, 7. 12, 7. Lúk. 8, 5—8.
276 * Þörfin krefur þad, reynslan sýnir þad, ritníngin kénnir þad.

íll8 og góðs því annars kann
ei mismuninn sýna.

277. Í réttu bæði og raungu skal
ræða' en hvergi þegja;
um allra handa vitsku val
„vólum" á að segja.

278. Annars mundu mennirnir
mæla' á stalli teptir:
eigum halda uppeptir,
eða niðureptir?

279. En eilíf hvørnig útskúfun
til Alréttlætis náði,
ef Þar gánga allt svo mun
að ákvørðuðu ráði? Post. 4, 28.

280. Einn að skapa í eilíft fár,
að annar farsæll verði,
á réttlæti fyr reysti hár, *)
enn rekka mun svo gérði.

281. Mælir það: ei mýldu naut,
með sem þreskja vildir! *) 1 Cor. 9, 9.
yndi mannsins, er hann braut
móti' eilífum þorsta' ei gyldir.

282. Ogn er hugsan íll og sljó
að ætla Føður hæða

280 * Col. 3, 25. Róm. 2, 11. Post. 10, 34.

281 * Það er: sá sem erfiðar, njóti góðs af sínu erfiði; sá sem þolir hegningu fyrir aðra, njóti líka góðs af henni sjálfur.

med áſetníngi og alúd þó
olbogabørn ſér fœda! Sálm. 145, 9.

283. O þann gjørdann órétt þér
elſku Fadirinn gódi!
þér, ſem fadmar allt hvad er,
og áſt med ritar blódi. 1Jóh 5,8.Matt.7,11.

284. Af sentíngu þíns Sonar bert
ſjeſt ad heim elſkadir, Jóh. 3,
og því treyſti' eg ad þú ſért
øllum beſti Fadir. Matt. 7, 11.

285. Fyrirhyggjan føgur þín
finnur tryggar leidir;
elſkan ſøm er eilíf ſkín
um allann heim ſig breidir.

286. Æ nú taktu' oſs øllum frá,
(ef óſk má fylla mína)
ſkýlu *) þá ſem ſkyggir á
ſkjæra Hátign þína.

287. Mannahaturs braut er breid,
þá bragnar adra ſtyggja,
ef úrkøſt Drottins, okkur leid,
ætlum hjá oſs byggja.

288. Einginn gétur elſkad Gud,
þá ætlar hann ſig ad hata;
ſú myrka hugſan meinþúngud
manni um ſtund kann glata.

289. Gud þad launad gétur eitt,

286 * Meiníngunа um þá eilífu útſkúfun.

er gefid sjálfur hefur,
og heilla til oss hegning veitt,
hann medan ekki géfur.

290. Ef vitskan eigi kémur kjæn,
kunnum fljótt þess gjalda;
sannleiks ást ef vex ei væn,
vid rís mædu alda.

291. Vilja styrk ef vantar oss,
verdur framkvæmd eingin;
þau ef ekki þiggjum hnoss,
þolum kvala streinginn.

292. Réttlætid sú raustin er,
sem reka skal og knýa,
ad ófeingna menn abli sér
en nú gáfu nýa.

293. Allt hid góda Gud oss ljer *)
gjørir oss andinn fræda;
hitt, þad vonda ekkért er,
utan vøntun gjæda.

294. Vilja' og framkvæmd verkar hann,
vitna heiløg frædin, Phil. 2, 13.
uppørfanir veita vann
ad velja' og fáuga gjædin.

295. Af okkur sjálfum ekki neitt
orkum hug um renna,
dád er vor af Drottni veitt, 2 Cor. 3, 5.
dygd er vill oss kénna.

293 * Jak. 1, 17. 2 Cor. 3, 5. Jóh. 6, 63.

296. Hvad er madur (hermdu mér)
er hefurdu' ekki þegid? 1 Cor 4, 7.
gáfur brúkun gagnid er
af Gudi þér út vegid.
297. Brúkunin þeigi okkar er,
því uppørfanir gaf hann,
og samhljódun edlis ljer,
af sem tekur vafann.
298. Læknisdómur ekki á
vid alla sami þegna,
uppørfanin allt eins má
ólíkt sálum gégna.
299. Uppørfanin ávøxt ber,
andans gjøf og trúin,
líkt og serhvør okkar er
undir þessar búinn. Lúk.8,4-15. Róm. 11,8.
300. Edli manns er ótalbreitt,
og ýmislega vanid,
ørfun sama ýmsum veitt
ójafnt skeid fær þanid.
301. Hálf er sjónin høldum gérd·
hvar sem leiti náum;
myrk er oss ófarin ferd;
fram undan ei sjáum.
302. Skýrt má vera skiljandi
skini gjæddum þjódum,
ad einginn villist viljandi
vitskunnar á slódum. Eph. 5, 29.

303. Vel ef þekkti þrøskuldinn
þann í hugsun feldi,
mundi sig ei madurinn
mædu selja veldi.

304. Gjørist manni gjætslan þúng,
gétur valdid pínu
viljans bønd hve vitskan úng
vefur ad hjarta þínu.

305. Hønd Guds midlar hans ad vild*),
hinum géfur sídar, Róm. 11, 32.
hans óbrigdul hittir snild
hentugleíkann tídar*).

306. Mundi hann ei hafa rétt
á hjálmi líffins ýta
ljósin kveikja á liljur sett,
lángsamt þeim ad bíta?

307. Kénníng reynslu gjørist gløgg
af gjafa lángseminni;
einmidt líffins ørfar røgg
ad árekstrana finni.

308. Þegar fyllir firda um allt
fullkomnanin lánga,
þá mun borgast þúsundfaldt
þessi mædan stránga.

309. Pharaó géfa hlýdinn hug
Herrann ekki vildi;

305. * Róm. 9, 18. 11, 8.
— * Róm. 11, 33. Post. 1, 7. Post. 17, 30.

af því höndin almáttug.
öllum kunnug skyldi. Róm 9, 17.
310. Undirbúinn illa var
ödlíngur ad gégna,
heidínglegrar hjátrúar
hans inngrónu vegna.
311. Hefdi Pharaó feingid skipt
vid fylkir Davíd anda,
hans þá mundi hærra lypt
hlýdni' í ritum standa.
312. Alla tilraun ekki hér
vid ýmsa reynt Gud hefur,
þá ad betra; þetta mér
þess von sídar géfur.
313. Ef Týrus hefdi' og Sidon sjed
og Sódóma kraptaverkin.
ydran hefdu' í ösku tjed,
og önnur hlýdnis merkin. Matt. 11, 23.
314. Sódóma hin sama var
söltud eldi raudum; 1 Mós. 19, 24.
ad virdum sett til varúdar
vekji af syndum daudum. Júd. 7.
315. Misjafnt Gud oss midlar pund, Matt. 25, 15.
misjafnt ávöxt krefur, Lúk. 12, 48.
krafan örfar ýta lund,
allt því Drottinn géfur.

---

310, Þetta ætlar höfundurinn til ad útskýri forherdingu Pharaóns.

316. Krøfuna eflir auglýst náð, Róm. 8, 3.
um elskuna Guðs hún spjallar,
þessa trúin gétur gáð,
Guð sinn Føður kallar.
317. Guð uppbyrjað góða verk
gjørfullkomnar þanninn,
lífsins til svo líknar sterk
leiðir Guðs hønd manninn.
318. Vitsku, elsku' og viljans skjer,
vekur Guð og nærir;
hann því fyllir allt hvað er,
eblir líf og hrærir. Post. 17, 25. 28.
319. Erum vér sjálfir ekki neitt,
ekkért því vér megnum,
fer oss Drottins ablið eitt
sem ægir báru gégnum. Post. 17, 28.
320. Af abli Drottins orkum vér,
abl það hugann fyllir, 2 Kor. 3, 5.
elur kjærleiks eld í þér *), 1 Jóh. 4, 16.
ørfar vilja' og stillir. Phil. 2, 13.
321. Skøpun þannig skiljast á:
skapa' er ekki að smíða,
heldur egið ablið ljá *),
ákvarða og prýða.

---

320 * Þetta má líka sanna af foreldra ástinni og sjálfselskunni, sem eru bersýnilegar Guðs rauslir innan í oss.

321. Samanber það sem síðar sagt verður um myndun alls líkamlegs efnis, eða a l m a g n s e l s k u n a, (415).

322. Utskúfunin ekki þá,
Almáttugum lyndir;
sjálfur Drottinn øblin á,
ótal sett í myndir.

323. Fyllir Gud svo eitt og allt,
afgrunn djúps og hæda; Jer. 23, 24.
honum ei þó eigna skalt
hid illa, vøntun gjæda. Jak. 1, 13.

324. Ofullskipad er þar rúm
ad alspekinnar rádi,
uns uppljómar ljósid húm, 2 Kor. 4, 6.
líf sem eptir þrádi. Eph. 5, 9.

325. Annars þurfti aungva tíd
í skøpunarverki,
ef algjørleikans ár og síd
allt í stædi merki.

326. En þá væri umbreitíng
alleina til skada,
og lífid allan heims um hríng
hørdust kyrdar stada.

327. Einmidt lífid yrdi þar
oss klettfastur daudi;
breitíngin til betrunar
bætti þess ei audi.

328. Øll náttúran er svo gérd,
ad aldar leiki' á hjólum;

ætlud lífi er eilíf ferd *),
eins og himinsólum.
329. Algjørleik er ekki ad fá
hjá endanlegri veru,
einnig himnar himnum á
hreinir þeigi eru.
330. Oss ad tídin finst á ferd,
en fast ad rúmid standi,
þetta einmidt Guds er gérd,
Gjædskan bædi þandi.
331. Vøntun gjæda virda flýr,
vitska og ljósid mæta,
ó hvad sú er dásemd dýr
Drottins! þess má gjæta.
332. Eilíf gjædin eigum í fáng,
hid illa' á baki flýr oss,
þess hid fyrra þrauta stáng
þekkíng sælu býr oss.
333. **Blessun því er baka til,**
**blessun hin ad framan,**
**blessanir um oss bádar skil**
**bindast høndum saman.** Róm. 8, 28.
334. Nú vid tídar fagurt frón

---

328 * Menn ímynda sér sumir ad annars heims líf verdi ómbreitanlegt; en sú meining er á aungvu byggd, því lífsins edli er ad hreifa sig og fullkomna. Gud er einsamall hér frá undantekinn, sem er alfullkominn.

329 * Matt. 19, 17. Job. 4, 18. 15, 15. 25, 4 — 6.

fagnadar vér nutum,
adra rúmid opnar sjón
í samtída hlutum.

335. Ljóssins trøppur lítum þat,
líf sig ójafnt bálar;
oss framfarir eilífdar
eins og spegill málar.

336. Ádur mæltum um þad vér,
þá andans gáfu tøldum
ójafna, nú birta ber
betur lífs af gjøldum.

337. Pad ei lýdir þakka skáp,
ad þann í løgdu sjódi;
og hafi þeir tómum haldid kláp,
hefna sist af módi.

338. Aungvann Gud því ásakar *),
vid aungvann neitt hann metur;
hegnir lýd til lækningar,
med launum styrkir betur.

339. Einnig mættu einglarner
undirtaka og seigja:
„ónýtir þjónar erum vér" Lúk. 17, 10.
þá ei frá réttu beigja.

338 * Assøkun sú sem er í samvitskunni midar eiuingks til betrunar, en ekki til útskúfunar; hún er lík því ad fadir ávitt barn sitt, en ekki því þegar saksóknari ákjærir sinn mótpart. Madur ásakar sjálfann sig af því honum er annt um sjálfann sig, og er þad Guds rádstofun.

340. Þarf ei neina þjónkun Gud,
því hann allt kann verka;
øll er sképnan upptendrud
af hans krapti sterka. Jóh. 3, 27.
341. Hvad á Gud ad gjalda þér,
gjøf hans allt þar sønnum? Róm. 11, 35.
verdskuldan því eingin er
einglum hjá né mønnum.
342. Endurgjald því aldrei var
ædsta mid Réttlætis,
heldur ørfun alúdar,
og lifnadar bætis.
343. En þar gjøldin géfid fá
góda viljann meingi,
reikna þau sem medal má,
menn sem helgad feingi.
344. Ef réttlætis ei raust er herd,
rekkum ekkért geingur,
en þad setur allt á ferd,
eins og klukku streingur.
345. Stillikólfur heptir hjól,
ad hardt um of ei renni,
holdid eins þá hindrun ól,
er hóf á flýti kénni.
346. Likt sem gódur Gud þad vill,
ad gjørum mót vondu strída;
eins hann baud ad ófá ill
æsi kraptinn lýda.

347. Ef stillikólfur klukku' er fjær,
klykkir hún streingi' út lánga;
dygd ef spirníng fýsna' ei fær,
finnst sofandi gánga.

348. Alheims stjórnar undranir
allt skal þetta kénna;
andans kraptar eilífir
eins og gángverk renna.

349. En ef Guds er alvara,
ad allir til sín nái
hitt kann aldrei hjá fara
ad himin loks þeir fái.

350. Réttlætid fær vissu veitt
um vilja Guds hinn sterka;
því ófyrirsynju er orku beitt,
ef ei kann loks ad verka.

351. Alvitskan hún er svo viss,
er and' heims stýrir knørnum,
ad ei þarf kasta útbyrdis
endurleystum børnum.

352. Tálmar eingin hindran høst
Herrans rádum fjørgum;
hann þau streingir fjøtrum føst
ad fram=eilífdar bjørgum.

353. Ovissan er skatna skók,
skékur ei Drottins hendur;
því Alspekinnar ekki' í bók
ordid „kannské" stendur.

354. Ur óskapnad' hann alla tók
án handgripa villu,
eins og virdar velja bók,
vel kunnuga' úr hillu.
355. Alvitskan á undan las
alla breitni manna,
æfir valdi utan flas,
egin vild fékk sanna.
356. Ef Júdas aumann Iskariot
ad ætlan leidt ei feingi,
hans í rúmid hafdi ei þrot
hølda', er ólíkt geingi.
357. Oskapt syndgar ekki neitt,
er þad hugmynd tóma;
skøpun mørgu' úrskilur eitt,
hvør skuli forløg hljóma.
358. Af því hlýtur allt þar ské
ad ákvørdudu rádi,
útvalinn hvør einn framsté
af óskapnadar ládi *).
359. Ut svo vøldu æfirnar,
í eitt Gud samanskeytir;
af því kémur alldarfar
er einginn máttur breitir.
360. Því annann veginn ekkért fer
enn ætlad Vitskan hefur;

358 * Utvalinn til skøpunarinnar, þad er ad skilja: valinn úr óteljandi eins møgulegum hugmyndum. (Mannliking).

og til þess nokkur tíni sér,
tilveruna' ei géfur *).

361. Allt er skodad eilífd frá,
ekkért Gud því skapar,
utan hvar vid sjálfur sá,
ad sitt ei áform hrapar. Sálm. 139, 15. 16.

362. Allt er skodad eilífd frá,
aldrei Gud því reidist;
óvart kémur ekkért þá, Post. 15, 18.
allt ad marki leidist. Jer. 32 17.

363. Allt er skodad eilífd frá,
ekkért Gud því lídur,
utan hvad hann sjálfur sá,
ad sælu mesta býdur.

364. Samt útkresst til sælu fast,
ad samvitsku menn gégni;
á sig hvør ad ábyrgjast,
eptir sínu megni. Phil. 2, 12.

365. Abyrgdar hvar orkan dvín,
í Guds Forsjón støndum;
æfast børn í umsjá sín
undir Fodurhøndum. Matt. 7, 11.

366. Eginkjara ábyrgdin
upphaf vitsku kénnir,
Ottinn Guds af alúd sinn
allann krapt þá spennir. Sálm. 111, 10.

---

360 * Es. 33, 11. Sálm. 145, 9. 2 Pét. 3, 9.

367. Ef ótti bædi' og adkøllun
yfir menn ei dyndu,
fram ad sinni fullkomnun
fara þeir aldrei myndu.
368. Elskan burtu ótta slær,
ylnum glædir nýum,
eins og renni rødull skjær
rosa fram úr skýum.
369. Gleymum aldrei Guds þó vid
gaungum leidslu þrádinn,
ad inn er flettad adkallid
í ákvørdudu rádin.
370. Eina járn-hønd eg veit þá,
er almáttuga kénni,
vil eg nefna vødva þrjá
volduga í henni.
371. Sjálfselskan er sett í þjód,
svo hegningar eldur,
og viljinn frjáls er gjædin gód
gjarna kýs þó heldur. Sír. 15, 14. 16. 20.
372. Þessi krøptug þrenning tøld
þángad manninn leidir,
hvar ed sælan sett fyrir øld
sinn út fadminn breidir.
373. Heimskan sár med synda grønd
sútum hjartad meidir;
en sú gledur øblug hønd,
er allt til dýrdar leidir.

374. Valið gjæða vanda fyllt
í vitsku og dygð mann æfir;
að géti á bøndum gjæfu stillt
geingið, eins og hæfir.

375. Ekkért dýr, sem ekra ber,
eins er slægðum búið,
sem girndin þegar ginna fer,
og gétur vélum knúið.

376. Høggorms slægð er haldin stærst,
og holds vér girndir sønnum.
að fyrirboðin glis fá glæst,
glepja sjónir mønnum.

377. Af því høggorms heitið gaf
heiløg ritníng girndum,
er vort sakleysið vélast af;
þær vefjast hlikkja myndum.

378. Helvítið sú hegníngin
hlið sitt opnar breiða *);
afar-slægi andskotinn
ákast girnist veiða.

379. Það sannleikur allt er einn,
ýmsum klæddur myndum:
„að virða kunni varla neinn
varast háska' af girndum".

380. Ekkért dýrið ætlar sér
í óvinar klónni lenda,

378 * Matt. 7, 13. Lúk. 13, 24. Eph. 2, 2. 2 Kor. 11, 14. 1 Pét. 5, 8. Lúk. 22, 31. Job. 1, 7.

allt fyrir það þó einmidt ber
að þeim háska kénda.
381. Vaka' og biðja vinur skalt,
að vjel umflýa kynnir;
mátt fyrir Guðs þú megnar allt,
meður trú svo vinnir. 1 Jóh. 5, 4.
382. Guðlegt sinnið gjørist þá
Guðs ef til þú biður; Lúk. 11, 13.
fylgja Guðs umgeingni má
gleði, ljós og friður.
383. Vonin djørfúng vekja má
en vor forlaga- blinda
andvarann oss elur hjá
upp til segl að vinda.
384. Skilst mér af til skýrteinis
skýrum røkum tøldu:
að ei kom vondt sem óvænt slis.
inní Guðs veroldu.
385. Hið illa hlítur (eg svo skil)
einmidt lífið glæða;
vitsku Guðs eg vitna til,
vill sú heimi gjæða.
386. Vindhøgg aldrei Vitskan slær,
verður allt henni að hlýða,
eins á morgun og í gjær
er eilífa sjónin fríða. Es. 55, 8.
387. Ráð er valdi Vitskan svinn
verða' af aungvum brjálud,

eins og spjald er eilífdin
øll fyrir Gudi málud.

388. Vegina leggur Vitskan þar
verunum best sem hlýdir;
eins og landkort umfjallar
óframkomnar tídir.

389. Viljinn frjáls ei varnar því,
hjá verum í framtíd blindum;
eru rádin eins og ský
ýmsum feykt af vindum. Ordskv. 21, 1.

390. Þá rád sín dylja limsk eda laung
leid Guds hreint ad beigja,
Guds í viljans gaungin þraung
gøtuna beint þær sveigja. Job. 5, 13.

391. Hvondra þverúd vara kann
vissa mælda stundu,
sigur í framtíd setti hann
sína fast í mundu. Job. 38, 11.

392. An Guds vilja einginn kann
á jørd fuglinn detta *);
hár eru tøld um heilans rann,
hugsa madur um þetta.

393. Allt hefir teingt svo á er hind
ædsta hagleiks mundin,
øll er sképnan ein hugmynd
alveg saman bundin.

392 * Matt. 10, 29. 1 Kron. 29, 12. Job. 14, 5. Sálm. 139, 16.

394. Heimur fer ei hársbreidd frá
Herrans ætlaninni,
er hann frá eilífd horfdi á
í hyggju bjartri sinni.

395. Verdur þaraf verøld øll
vitskunnar í skordum;
allda skodun opnar snjøll
hvad ekki þekkt var fordum.

396. Ei meir rædir um þad hér,
þó eymdir mædi hørdu,
lífid glædir allt hvad er
um uppheim bædi' og jørdu.

397. O þú dýrdar afgrunnid!
unun kant mér sýna;
himin, jørdin, helvítid
hermir elsku þína! 1 Jóh. 4, 16.

398. Mætti' eg þína sífeldt sjá
og signa *) dýrdar ydju,
himin sælann hefdi' eg þá
í helvítinu midju.

---

398 * Signa, er ad blessa.

# Yfirlit

yfir þetta veika sýnishorn lífsglaðíngarinnar á vorum hnetti.

Talan telur lífsglaðíngar meðølin, en sú innsirklaða vísar á erindin.

1. Ástirnar.
2. Móðurlífsins alúðarfulli tilbúníngur.
3. Fæðíngin.
4. Foreldra elskan.
5. Omagahálsinn.
6. Proskunin.
7. Sjálfselskan.
8. Fullkomnuuarfýsnin.
9. Heidursfýsnin.
10. Samvitskan.
11. Heilagur Andi.

    Hans almennuu verkanir:

    a) Helgunin.
    b) Guðs orð.
    c) Trúin.
    d) Elskan til Guðs og náúngans.
    e) Huggun í hørmúngum.
12. Endurgjaldið.

    Þess ávøxtur er:

Vitska í breitninni, en hún er lífsins auga (103). Sú elska sem Guð elskaði øss með í skøpuninni, varir ómbreitt frá eilífð til eilífðar, því Alvitskan fær ald-

rei neitt nýtt að vita, sem hún vissi ekki áður, hvers vegna þá er ómögulegt að hinni elskandi Alvitsku géti nokkurntíma hugur snúist, svo Guð fari að hata þann sem hann elskaði áður. (104. 112).

13. Réttlætið eða reglan í endurgjaldinu. (113)
14. Friðþægíngin.
    Hennar skilmáli: (114)
    a) Iðraniu.
    b) Trú sem betrar hjartað.
15. Friðþægíngarinnar verkanir:
    a) Opinberan Guðs elsku.
    b) Fyrirgéfníng syndanna.
    c) Friður samvitskunnar.
    d) Sonar elskan.
    e) Sú fúsa hlýðni.
    f) Djörfúng bænarinnar.
    g) Guðs aðstoð.
    h) Sigur yfir syndinni. (115—117)
16. Jesú lærdómur og dæmi. (118)
17. Endurlausnin hefir kénnt heiminum þann lærdóm að réttlætið sé føðurlegt. (125. 128)
18. Endurlausnarverksins skélfandi raust. (129. 135)
19. Ætlunarverk lífsins, því til æfingar. (136. 141)
    Þess viturlegi skamtur. (142. 144)
20. Helgunin. (145. 147)
21. Framfararkrapturinn. (148. 152)

22. Stríð holdsins og andans, væri það ekki, þá væri ekki heldur dygðin. (153. 155. 156)

23. Dygðin, hún er líf, ellegar dáð lífsins. (153)

24. Gyrndanna gagn. (158)

25. Hið illa í heiminum má ekki alveg eða strax upprætast. (160)

Hvað hið illa sé; það er vöntun gjæða, vöntun verulegleikans. Guð er ekki höfundur hins illa, því hann er höfundur verulegleikans, og eydileggjari þess illa. Hið illa er í rauninni ekkért, er sjálfgjört og þarf því ekki að tilbúast. Það hefir þessvegna aungvann höfund. (163. 168)

Tegundir þess siðferðislega illa:

a) Vöntun vitskunnar, vöntun réttrar hugsanar, vanþekking sannleikans, heimska, villa. o. s. fr.

b) Vöntun réttrar tilfinningar, vöntun elsku hins rétta, kjærleiksleysi, skeytingarleysi, dofinleiki, tómlæti.

c) Vöntun hins kroptuga vilja, lauslyndi, óstaðfesti, breiskleiki, tápleysi *). (168)

26. Hið illa meiðir með árekstrum; með samvitskusting og ótal hegníngum. (169. 170)

27. Sakleysið og heilagleikinn. Mismunur þeirra. (172. 173)

Hið blinda sakleysi er ekki mannsins ákvörðun. (174)

*) Þeir tveir síðari flokkarnir í *b* og *c*, eru orsakaðir af vöntun réttrar hugsanar, svo að heimskan, eða vöntun vitskunnar er undirrótin alls ills.

Ad þekkja hið illa er vort fyrsta stig til ákvørðunar vorrar. (178)

En síðan er mannsins ákvørðun að vaxa til heilagleikans.

28. Lífsins agi. (194—198)

Þar nú lífið vort byrjar á heimskunni, þá er:

*Freystíngin* eins og yfirheyrsla í æfíngu vitskunnar. (198)

*Syndin* er auglýsíng heimskunnar, svo heimskunni verði refsað og útrýmt; syndin er heimskunnar sýnilega mynd. (195)

*Hegníngin*, hún er holl, þó þeim hegnda þyki hún íll; hún veitir: (196)

*Vitskuna* eða hyggni af skaðanum. 197)

29. *Nytsemi þess illa, sem Guð ekki vill hindra.*

a) Syndin gjörir heimskuna sýnilega, svo henni refsað verði. (195)

b) Það illa rekur mann frá sér til hins góða. (201)

c) Kénnir lífinu sjálfsbjørgun. (204)

d) Æfir alla lífsins krapta. (208)

e) Knýr mann til að leita Guðs. (213)

f) Sýnir Guðs elsku. (220. 221)

g) Gjørir mann gjætinn. (222)

30. *Mannkynsins margbreyttu leiðir.* (223—230)

Þær kanna vitskufjallið eða uudirbúa alvitsku.

31. *Vorir dómar (héraðsdómar)* um vorar eigin og annara gjørðir eru oss til leiðarvísis í þessum heimi og til æfíngar skinsemi vorrar. (231. 233)

32. Effsti dómur, sem leidréttir héradsdómana. Af honum flýtur (234—242)

33. Sú *almenna vitska*; þar dómurinn skédur í allra manna augsýn, þá dæmast allra manna leidir frá upphafi heims til enda. Þá sýnist hvörr madur meiga verda svo vitur eins og hann hefdi sjálfur geingid allar þær leidir, med øllum þeirra kríngumstædum.

34. Gjøldin munu med margbreitni sinni í farsæld eda ófarsæld gjøra dóminn gløggvann, tilfinnanlegann, minnisstædann og uppørfandi. (236. 242)

35. Annarsheims køllun, því til hvørs skal annars sú mikla vitska ef hún skal ekki brúkast? (243)

36. Ný gjøld fyrir annars heims þjónustu. (244) Um þessi talar Ritníngin ekki eitt einasta ord, þar fyrir má hvørr hafa sína meiníngu frjálsa þar um.

Þessi sídari gjøld hljóta ad ské ef alheims áformid skal eilíft vera, því:

Réttlætid er eilíft og miskunsemin eilíf, en þetta leidir til alfullkomnunarinnar. (245. 246)

Hegníng fyrir þessa heims ódygd og laun fyrir annars heims dygd géta vel geingid samsída um alla eilífd. (250)

Eilíf hegníng og eilíf útskúfun er sitt hvad. Sú fyrri gétur varnad eilífum dauda, en hin sídari er sá eilífi daudi sjálfur. (252)

Eilíf útskúfun er ómøguleg; (253) því: a) Einginn gétur verid skapadur einúngis til hegníngar, eda hegníngin er eingin høfudtilgángur heldur

medal. Ritníngin stadfestir þetta margfaldlega*). (254)

b) Sá sýnilegi himinhnatta grúi sýnir ad Gud vill hafa þær lifandi verur sem flestar, og hann ætli sér því ad fullkomna þær allar, en aungva ad ónýta. (260. 261)

c) Allt geingur þrádbeint eptir Guds ákvardada rádi, og líf vort birjar á heimskunni. (257. 259)

d) Vondir menn máttu ekki missast úr heiminum vegna vidvörunarinnar; meiga því ekki gjalda þess. An þeirra gæti réttlætid ekki sýnt mismun góds og ills. 262—279)

e) Allt gott er Guds gjöf, en mannsins verd-skuldan eingin, hvorki til launa né hegningar. Rétt-lætid er því eingiun verdugleika-reikníngur, heldur hrein uppörfan, hrein nád. (289—342)

f) Öll betrunar tilraun er ekki gjörd í þessu lífi. (312—314)

g) Réttlætisins vidleitni ad lagfæra sýnir ad lag-færíngin sé möguleg. 348—349)

h) Alvitskan gjörir stjórn Guds óhulta fyrir öllum slisum. Stjórn Guds þýdir ad hann ekki láti allt gánga eins og gánga vill, heldur stjórni heiminum svo ad hann gángi eptir sem best er. Forsjónin og Fyrir-hyggjan gánga ad öllu vísu fyrirfram og framkvæma

*) Þegar t. d. ritníngin segir ad Gud hegni í 4da lid, en launi í þúsund lidu, þá bendir hún til ad Gudi sé ekki jafnkjær hegningin sem launin, og ad þar séu þessvegna ekki tveir höfudtilgángar, heldur einn einasti.

allt sitt áform án nokkurrar hindrunar eda hnekkirs. (350—363)

37. Eginkjara ábyrgd undir Guds forsjón er á- þekkust því, þegar gódur fadir lætur börn sín ráda, og sjá um sig sjálf í búskapar byrjun, en hefir þó yfir = umsjónina sjálfur. Madurinn hefir ad ábyrgjast sig fyrir hegníngunum, en Gud ábyrgist ad madurinn nái sinni ákvördun. (364—365)

38. Otti Drottins er upphaf vitskunnar. (365)

Adkallid eda eptirrekstturinn innibindur lögmálid, samvitskuna, skinsemina, reikníngsskapinn, réttlætid, endur- gjaldid og eptirdæmid med þess upporfun og advör- un: o. s. fr. þessi atridi eru talin ádur, en inni- bindast hér í einu ordi. Þegar menn ekki gleima þessu útúr alheims áforminu þá sýnist öldúngis hættulaust ad trúa því, ad allt sé af Guds Forsjón fyrir fram á- kvardad, og þá hlaupa forlögin, Forsjónin og frjálsrædid saman í eitt. (366) (368)

39. Guds elskan gjörir allt blídt og gledilegt, og allt verdur þeim til góds sem Gud elska. (367)

Sjálfselskan, hegníngar = eldurinn og frjáls- rædid leida mann kröptuglega til ákvördunarinnar, (369—372)

40. Vandfærni lífsins efir í vitsku og dygd. (373)

41. Umsátur hegníngarinnar vekur andvara. (374. 379)

42. Arvekni, bæn og Guds-umgeingni frelsar mann frá hegníngarinnar hættu. (380. 381)

43. Vonin vekur djörfúng. (382)

44. Forlagablindnin hvetur til árvekni; því ef madur, til dæmis, vissi ad fyrir sér lægi ad fordæmast, þá legdi madur öldúngis árar í bát, þar madur sæi ad ekki væri til góds ad gjöra, því þad sem fyrirliggur er öldúngis óumbreitanlegt. Eins ef madur vissi ad fyrir sér lægi ad verda sáluhólpinn, þá legdi madur líka árar í bát, þar madur vissi ad hid fyrirliggjandi gétur ekki haggast. Svo ad ekkért nema forlagablindnin, ellegar ad ödrum kosti alvirska, gétur hvatt mann til atorku. Líka æfir forlagablindnin menn í skinseminni med því ad láta þá ígrunda hvad forsjállegt sé og óforsjállegt. Ad hid fyrirliggjanda er öldúngis óumbreitanlegt, er grundvallad á því, ad sannleikurinn er aldrei nema einn um öldúngis sama efni, í sama tilliti, eda ad ómögulegt sé, ad eitthvad undireins sé og ekki sé; hvad ed kallast grundvallarregla mótsagnarinnar. (382)

45. Guds óbiluga Forsjón vakir yfir öllu. Fyrirfram vitskan sjer allt fyrirfram, og Spekin, hvad af hvörju einu flýtur, hvar úr hún velur þad sem hún vill. Og þar ed allar þrjár tídirnar, sú umlidna yfirstandandi og ókomna eru allar eitt fyrir Gudi, þá stjórnar hann þeim öllum þremur í einu, svo ad allt geingur þrádbeint eptir Guds vilja, svo ad alheimur er eitt eilíft „skal," sem einginn krapt-

ur gétur hið minsta andað á móti, því allir krapt-
ar eru Guðs. (384—397

Þess hugsan er ekkért óttaleg, heldur gledileg,
því að í öllu drottnar eining, regla, elska og vitska.
Alheimur er kédja bædi í tíð og rúmi.

Athügi.

Ætti að telja upp öll atridi lífsglædingarinnar,
þá yrdi það endalaust; jafnvel það sem menn þekkja af
þeim er óþrjótandi. Ætti að telja upp alla sálarinnar
krapta, allar tilfinnanirnar, allar girndirnar, allar ædar,
vödva og bein í líkamanum, öll sambönd mannlegs fé-
lags og útskýra hvað hvört eitt af þessu gjörir til lífs-
ins fullkomnunar, þá yrdi það störkt og ómögulegt.
Samt heldur höfundurinn að hið fáa hér að framan-
talda géti géfið hugvekju um, að alheims áformið
sé óslitandi kedja.

## Um tilgáng og myndun alls líkamlegs efnis,

eda

## um mótspyrnu og samlodun.

399. Þannig lífi þjónar allt,
þreifanlegt sem nefnist,
og sjáum vera svo margfaldt,
samið þó án efnis.
400. Allt hvað litið augað fær,
eda mund kann þreifa,

andlegur kraptur einn er tær,
þann Almættið má hreifa.

401. Mótspyrnan sá máttur er,
mín sem orðin þýða,
Guðs í mundu himins her
og hauðrið skapar fríða.

402. Líf svo blómgist, Herrann hár,
honum eins og lyndir,
sagðann krapt um síð og ár,
setur í allskyns myndir.

403. Ef máttur þessi mótspyrna
markaði' ei sviðin geima,
þá í gapi ginnúnga
gjørvallt mundi sveima.

404. Eingin støðvun yrði þá,
eingin reyndin væri,
eingin mentun andans há,
ekkért ljóma bæri.

405. Því að hrifi ekkért á
øll skilníngarvitin,
reynslan fræðt ei feingi' oss þá
frá oss alveg slitin.

406. Á sagðann hátt ei sálin úng
sannleiks þekkíng græddi;
Drottinn því í duptin þúng
með dásemd hana klæddi.

407. Elskan Guðs um æskustig
øndina dáð-ber-snøggu

eins og módir ástúdlig
umbýr heims í vøggu.

408. Ad sú líknarhøndin hlý
hjúkrad fái betur,
líkams allar þessar því
þiljur í tómid setur.

409. Ýdqn kvikar almagns þá
alla rúms um geima,
ablgeislarnir *) út svo frá
ótal púnktum streyma.

410. Þá ablgeislar frá einum púnkt
annars mæta verda,
fyrirstada', er þrýstir þúngt,
þar sig tekur herda.

411. Mótspyrnu hvad magn er þá?
mitt er þannig svarid:
vissir púnktar varnad fá
ad verdi í þá farid.

412. Þegar kémur þessum nær
þeirra líkur granni,
stríður krapta stormur tær
stendur af hinna ranni.

413. Einn sá púnktur mynda má,
medur hvolfi smáu,

409 * Ablgeislar er ord myndad eins og ljósgeislar, til ad sýna ad í stad þess, ad ljósgeislar eru ljós, þá séu ablgeislarnir abl. Þessir stefna í allar áttir útfrá púnktinum, eins og geislar.

sem ablgeislarnir farid fá,
Frumøgnina kníu.

414. Eins og foss í áar hyl
eys fram nýu vatni,
felli = sløgum *) sleytt er til,
ad frumøgn eigi sjatni.

415. Endurnýast øgn svo þar,
æ nær tíd fram rólar,
eins og fossinn elfunnar,
eda g e i s l i n n sólar.

416. Hvadan kémur ablid ad,
er frumøgnin geimir?
elsa heitir almagns þad,
sem út frá púnkti streymir.

417. Frumøgn er svo feyknar smá,
ad fáum ei handsamad;
til svo gjørir tídt ad slá,
ad talníngu fær lamad.

418. Tídleik þann og téda smærd
eg tel þess orsøk sanna,
ad efnid hvílir allt med værd
augum fyrir manna.

419. Þettad er oss þá til gagns,

---

414 * Fellislog. Haldi madur hendinni nedarlega í fossi, þar sem er dropaskil, finnur madur adgreind sløg, en ofantil í straumnum falla sløgin saman í samfeldt abl, sem tilfinningin ekki getur adgreint í sløg, en eru þó sløg ei ad sídur. Þetta sýnir ad abl er samsett af smásløgum, og synyrna af rykkjum.

því mótspyrnan ella
líkust rykkjum rafurmagns
rétt oss mundi hrella.

420. Þannig sig í efnið allt
agnir fyrstu mynda;
því nærst fara þær ávalt
að Þraungva, loða og binda.

421. Samanloðun vitum vær
viðnám bøndum þræðir;
inní hvolfin ekki nær,
utan tjøldum klæðir.

422. Þannig løg, er þensla að fer *),
þylur Vitsku ljómi, Sálm. 33, 9.
heimurinn svo að allur er
almagns banda drómi.

423. Af øgnum teingjast þræðir þá,
og það með listum snjøllum;
vefur þar úr Vitskan há
voð, er Líkam køllum.

424. Eins frumagnir mynda mold,
málm og gufu tæra;
þar úr hnoðar þýngdin fold,
þétta' og sképnu-bæra.

Allsherjar Þýngdin.

425. Spyrjist að hvað það sé Þýngd,
þá eg svara vildi:

422 * er þenslan (Útstrækningen) hlýðir.

hvør ein frumøgn hvolfum kríngd
hvetja til sín skyldi.

426. Í innri hvolfum er hún stríd,
utar sídan deysist,
því ad nær þau verda víd,
vita má, hún dreisist.

427. Þýngdin saman þrýstir mold,
þýngd svo hnodu vindur,
þýngd um rødul þeytir fold,
þýngd sól-mekki bindur.

428. Eilíf Spekin þannig þú
þúsund verk í einu
fær algjørt, ad framkvæmd sú
fatist ekki' í neinu.

429. Þýngdar bodord þegar geim'
þinn vill skipa munnur,
heyra strax og hlýda þeim
hismi, jardir, sunnur.

430. Allt er hendi þinni þjált,
(þad oss himin tjádi),
eins og gjøri allt sig sjálft,
ædsta þó med rádi.

431. Eilífs lífs hér ædstan nú
undirbúníng kénni;
rúms og tídar tjøldin *) þú
tígugleg útspennir! Es. 40, 22.

431 * Spennir út tídina og rúmid eins og tjeld.

332. Myndar agnir mótspyrna
af mætti þínum snjalla,
þú svo lætur þýngdina
þessar saman kalla.

433. Samansestir síðan þær
samlodunar bandi;
í rafurmagni ljós þú ljær
og lífs il óþrjótandi.

434. Løggð er þannig listum með
lífsins gróðrarstýa,
uns að kviknar enn ósjeð
eilíst fjørið nýa.

435. O hvað þitt er alvalds gildt
umskyggt tignar húmi!
æ þú málar eins og vilt,
obl í tíð og rúmi.

436. Haldast blídt í hendur þar
hærstra lista sveitir,
ó það ljósið ununar
sem ímynd Guðs hér veitir!

## Skýring.

Þegar menn róa á skipi, og einhvor nær ekki til með fótunum að spyrna í reyngurnar, þá segir hann: eg gét ekki róið, því eg hefi aungva viðspyrnu; tekur hann þá hlunn, eða austurtrog, setur fyrir yljar sér, og spyrnir í. Auðvitað er að hérmeð er meintur kraptur

sá, sem í hlunninum er, til að spyrna á móti manns- iljinni, því óný́tt væri að spyrna í hlunninn, ef hlunn- urinn spyrndi ekki á móti; svo að viðspyrnan er þá mót- spyrna. En svo lítið sem menn taka almennt eptir þessum krapti, þá er þó hægt að sjá, að hann er það verkfæri eða réttara sagt átak almættisins, með hverju það skapar allt hið þreifanlega, sýnilega, heyranlega, þefanlega og smakkanlega, hvert sem það er á himni eða jörðu. Því ef vér hugsum eptir, hvernin fara mundi ef Guð sleppti um eitt augnablik þessu eina á- taki sínu, þá er auðvitað, að vér gætum á aungvu þreifað, því áþreifingin væri þá eins og sálinn úti auðt rúm. Ekkért yrði séð, vegna þess einginn hlutur gæti þá sendt frá sér ljósgeislana í augað. Uppá sama máta kjæmist ekkért hljóð til eyrans, ylmurinn hrifi ekki á nasirnar, né smekkurinn á góminn. Í einu orði: allur sá sýnilegi heimur væri horfinn, og vor líkami með. Af þessu sýnist sem allt hið þreifanlega sé inni- falið í mótspyrnunni heptri eða tempraðri uppá ým- islegann máta af samloðunarablinu. Til að gjöra sér skiljanlegt hvernin mótspyrnan hagar sér, þá aðgjæti maður, t. d. eina handfylli af mold. Kreisti maður hana í lófa sínum, þá spyrnir hún á móti, og það því fastara sem fastara er kreist. Þessi kraptur geingur útfrá moldinni á allar síður, eins og geislar frá sólu, og setur sig á móti þeim krapti, sem lófinn kreistir með, og sækir inn í moldina. Þar mæta því ablgeislar lófans ablgeislum moldarinnar. Snudri maður nú moldar hand-

fyllina, og taki eitt einasta korn, og klýpi þad milli fíngurgómanna, þá sýnir þad alla sömu eiginlegleika og handsyllin ádur, ad ablgeislar þess spyrna einnig í allar áttir útfrá því. Nú er kornid einnig samansett af óteljandi minni pörtum, útaf hvörjum einnig ablgeislar gánga, og varna því, ad korninu verdi samanþrýst í óendanlega lítinn púnkt. Nú er spurníng: hvört deilíng þessi eda sundrun géti geingid endalaust, eda ekki, ef mannleg handastjórn aldrei þryti. Geingi hún endalaust, þá gjætu ad sönnu hardir líkamir komid þar af, en stæltir líkamir gjætu ekki framkomid, vegna þess ad þá yrdi ekkért lát á neinu, nema þar sem brotnadi inn hvar holur væru, en líkamirnir gjætu ekki tekid sig aptur, eda þanid sig út, þegar hætt væri ad kreista. Þessvegna má deilíngin ekki gánga endalaust, heldur hlýtur madur ad ímynda sér lokslins adgreinda púnkta, sem séu án allrar stærdar med svo litlum millibilum ad yfirgángi allann mannlegann ransóknarkrapt. Frá hvörjum þessara púnkta, sem raunar eru ekkért, heldur öldúngis tómir, verda ad gánga ablstraumar í allar áttir eins og geislar, og spyrna á móti ablgeislum hinna púnktanna. Hér er nú ekkért annad enn andlegir kraptar, sem spyrna hvör á móti ödrum, og er þad almættid sjálft er spyrnir á móti sjálfu sér. Nú eins og sólargeislinn er samsettur af ljóssögnum, sem streyma hvör á eptir annari, svo verdur líka ablgeislinn ad vera samsettur af rykkjum, er koma hvör á eptur ödrum. Eptir því sem þessir rykkir fara lángt útfrá sínum útgángs-púnkti,

eptir því verda frumagnirnar stærri og eptir því verdur líkaminn stæltari. Þar á móti verdur líkaminn því stælíngar minni sem ablgeislinn er styttri og rykkirnir fara skémra. En hardka og linka hlutanna fer eptir því hvad þeir eru holóttir, og eptir því hvørnin samlodunar ablid hagar sér. Því nær sem útgángspúnktarnir færast hvør ad ødrum, því strídari verda ablgeislarnir, af því þeir þéttast þar og sameinast. Ef frumøgnin ekki endurnýadist hvørt augnablik, eins og fossinn í ánni eda geislinn frá sólunni, þá vørudu líkamirnir ekki nema eitt augnablik eins og rykkur; madur hlýtur því ad álíta krapt frumagnarinnar eins og sírennandi straum.

## Himinsins takmarkalausa vídd.

437. Annadhvørt þad vitum vér,
ad veraldanna skari
eingin takmørk eigi sér,
og alvíddinni svari.

438. Ellegar honum utarfrá
um alvíddina sveimi
ønnur verkin Alvalds há
í ómælínga geimi.

439. Því alltíd rúm sem umkríngir
eflaust verdur stærra
hinu sem þar inni er,
ad ummálinu smærra.

440. Líkt sem tíd þó leingsta sé,
loks ef endíng hefur,

eilífðar spennt afgrunne
í augnablik sig vefur.

441. Eins hvað lángt sem leiptur ná,
þó linni hugar krapti,
og sér týni' í undrum há
anda heimur skapti.

442. Samt ef þrýtur leiptra lá
loks í umgyrdíngum,
rétt hún púnktur reiknast þá
hjá rúminu þar í kríngum.

443. Og Almáttugs í himna høll
handaverkin gildu
í púnkti þeim sem ekkért øll
inni kreppast skyldu?

444. Saml púnktur sýnist mér,
sér að týna mætti
í tómi því, sem tjáist hér,
að takmørk hvørgi ætti.

445. Og hvaraf valdi Herrann klár
heldur púnkt þann smærri,
allt þar tómið eins vel stár
Almættinu nærri.

446. Hvað úr tómi koma kann
er kynni hindra starfann?
Ei er nema að hugsi hann,
hvørgi efnið þarf hann.

447. Hann útþandi rúmsins rønn,
í rúmi' og tíð ófundinn;

segjum því ei sjálfann hann
svidi vissu bundinn.

448. Ef þá skipad ytst er tóm
óskapnadar húmi,
mundi Gud ad mínum dóm
meiri' ad tíd enn rúmi.

449. Eflaust rúmsins alvídd skjær
eilífd tídar svarar,
svo ad Guds á gjørdum þær
gángi alsamfara.

450. Alvídd fríd og Eilífd kjær,
(á þad skulum hlýda)
sitja eins og systur tvær,
sem Guds ríki prýda.

451. Idjan søm er þeirra, því
þær af elsku stýrdar
rúms og tídar ranni í
rekja vesinn dýrdar *).

452. Svo eru brúdir samhendtar
í salnum hvar þær vinna,
ad mætti hvørug missa þar
mundatøkin hinnar.

453. Ei þeim sleppa' hún Alvídd má,
annars vil eg meina

---

451 * Rekja í sundur, eda útbreida Guds dásemdir, svo ad Guds lifandi sképnur géti sjed þær greinilega og gladst vid þær, því annars væru Guds dásemdir í einum hnút eda dróma.

samanhlypu sólir þá
sinn í púnktinn eina *).

454. Ef hætta tøkum handanna
hennar systir nædi,
æfin gjørvøll andanna
augnablik þá stædi *).

455. Sitja brúdir sem í kross,
søm er fæding tveggja,
vøxtur og aldur virdast oss
vera eitt því beggja.

456. Kúlan sem frá sól út fló *),
ef sveima um Eilífd feingi,
út úr fadmi aldrei þó
Alvíddar hún geingi.

## Guds ríkis ómælanlegleiki.

457. Gud þitt veldi' án ummáls er,
øgn þess hvør er ljóma skrýdd,
tølu og mælir týnum vér
í tímans leingd og rúmsins vídd.

458. Hvørt skal eg þér fara frá
ad finni mig ei augu þín?

---

453 * Væri ekki rúmid eda alvíddin, þá væru Guds dásembir allar í einum púnkti.

454 * Væri ekki tídin eda eilífdin þá skédi allt á einu augnabliki.

455. Þær eru þvert útþandar hvør vidadra, bádar eins tilkomnar og undireins, jafn gamlar og jafnstórar.

456 * Samanber (24. 25).

þó flug eg taki' í himin há,
hønd þín eins vel nær til mín. Sálm. 139,7.

459. Renna fram þó reyni eg
til rásar mínum skjóta hug,
sem leingur ei er lángann veg
enn lítinn spøl ad þreyta flug.

460. Adur fram hann fer af stad,
ad flýa Drottinn ríki þitt,
geymdur er, eg gét á þad,
Gud í þínu veldi midt!

461. Þó hlaupi skeid sem hardast kann,
í hundrad þúsund árin sitt,
gistir eins þar gékk til hann,
Gud í þínu veldi midt!

462. Þó áfram haldi um eilífd snar
endalaust í rúmid hitt,
þú allt eins gjætir gjørvalls þar
Gud í þínu veldi midt!

463. Allt þad rúm, sem endíng ber,
á augabragdi fljúga kann!
en frá þér um eilífder
endalausar kémst ei hann!

464. Ef ert reidur *) ædsti Gud!
ógnarleg er makt þín há!

---

464 * Ekki er þad høfundarins meining ad Gud reidist, samanber (107) nótu, heldur ímyndar hann sér þad sem møgulegt, til ad gjøra sídari hugsunina því gledilegri.

ef ert vinur, æ føgnud!
af unun ljómar veldíð þá.

## Gud stýrir stóru og smáu.

465. Gud, nær himin horfi' eg á,
er hendur þínar gjørdu,
hvad er madur, hugsa' eg þá,
ad hann þú manst og jørdu? Sálm. 8, 4.
466. Sólkérfum þú setur rás,
sem og ari í geislum,
Eingli skaptir anda = krás,
ormi baudst ad veitslum.
467. Sólir gánga sína leid
sem þú Drottinn býdur!
gledi' og hrygda skundar skeid,
ad skipun þinni lýdur!
468. Segulbatt þín heima hønd!
hørdum skruggum rædur!
ástar hjóna bindur bønd!
børnum teingir mædur!

## Byggd í stjørnum.

469. Ei mun stjarna allur her
ekru þjóna lýdi;
fyrst haudur ei mót himni er
hjá sem dropi' er vídi.
470. Víst oss þækti viturt ei,
ef vildi snigill meina

í heiminn fæðða hnikars mey
handa sér alleina.

471. Miklu síður meigum vér
meina sólar hallar
þúsund sólna þúsunder
þjóna oss gjørvallar.

472. Hvað oss stoða stjørnur þær,
er standa svo lángt burtu,
að augna sjónin ei þeim nær,
en þó lýsa þurftu?

473. Mundi undir mæliker
Meistari sunnu tjalda
setja þenna sólna her?
svo má ekki halda. Matt. 5, 15.

474. Víst á þeßi fagri fans
fyrir skepnum lýsa,
skjæra' er mildi Skaparans
skulu með oss prísa.

475. Lýsa mun því sérhvør sól
sínum plánetunum,
hvar líf-skarar breitin ból
byggja' á upphverfunum.

476. Sólarljóss fyrst þurfa þær,
þar munu skepnur gjæddar
augnaljósi eins og vær,
um sinn Drottinn fræddar.

477. Stjørnubúar þeßir þar
þannig sig til reiði

undir kjørin eilífdar,
á lífs tíma skeidi.

478. Annad líf svo eignast þeir
eingilfagrir munu
eilífdar þá meir og meir
magnast fullkomnunum.

479. Í lífsins ordi oss lærdóm bar
Lausnarinn elskufúsi,
um mørgu vistarverurnar
vors í Fødurs húsi.

480. Hefir byggdir búnar lýd
þá burt frá jørdu vendir;
ljósum prýdd Guds borgin blíd
bjarta geisla sendir.

## Guds ómælanleg gjædska.

481. Ekkert minna áformid
uppheims stýrir láda
hafa mun svo háleitt vid
himna smídid tjáda.

482. Heitt ef elskar Hilmir sá
hnøttinn litla jardar,
æ hvad mjøg um alla þá
alvídd geims hann vardar!

483. Er hans gjædskan eins og þyrst,
ef svo mætti tala,
hópur mesti' í himna vist
henni best má svala.

484. Þar til skapa sképnur vann
í skapta ótal heima,
að gjæðskan hans um gjørvallann
geiminn feingi streyma.

485. Allann geiminn um svo skýn
ástin hans og mildi
alvøld streymir, aldrei dvín,
við ummørk stansa' ei vildi.

486. Óhultar enn áin Rín
úti ratar særinn,
gjørvallt flytur gjæðskan þín
Guð í dýrðar æginn.

## Stjørnubúanna fjøldi.

487. Mælt er þúsund milliónir
manna hér á jørðu
lifi, þannig lærdrá mér
letrin kénna gjørðu.

488. Sól (af verti skynja skalt)
sképna kann af hjørðu
þrettán þúsund — fóðra — faldt
við fóstru vora jørðu.

489. Mørg er stjarna meiri þó
mána hallar ljóra,
auða hnetti ei til bjó
Alvaldur svo stóra.

490. Heldur bygða hárdla víst
heima af þar verandi

skara sem af líkum lítst
lífs í fjølgun standi.

## Um lofsaungstilraun stjørnubúa.

491. Morgunstjørnur Milding þér
mikla lofgjørd róma,
bergmál sólna í bjørtum her
barna' af røddum hljóma. Job. 38, 7.

492. Alskýnandi eilíf vídd
Eingla af saung þó hljómi,
dýrd ei verdur þín útþýdd
þeim til fulls af rómi.

493. Þarf alheima sjón ad sjá,
svo þar unun finna,
sídan ordin semja há,
svo þad losid inna.

494. Þitt eilífa dýrdar djúp
dugir ei sképna ad kanna,
því hún bernsku hylst af hjúp,
er henni vill þad banna.

495. Rétt þér hæf ei rødd kann fást
rúms og tídar ljóminn!
sælda brunnur! eilíf ást!
upphaf lífs og blóminn!

## Eilífur félagskapur.

496. Auda Fadir! ást þín heit
innbaud slokknum manna

ædstar til í Eingla sveit
unadsemdir kanna.

497. Hvar ed dýrdleg ærin øld
inabyggenda stjarna
fjølmenna mun fyrr um tøld
fagurskarann barna.

498. Vini farna verøld frá,
ef verdan slíks mig gjøri,
mun eg þarna á sídan sjá,
sem umfadma kjøri.

499. Innbyggjendur alvíddar
er þá hljóta sælu
vinir dýrstu verda þar
í víst hjá Krist indælu.

500. Blessadi mun sá bródirinn
brædra hóp uppljóma,
honum allur himininn
hljómar gledi róma.

501. Guds um ást þeir greina ljóst
gledinnar ædstu í saungum;
einn blæs sæld í annars brjóst,
og hans drekkur laungum.

502. Ástúd vina innbyrdis
unun ljer margfalda,
sívaxandi er sældin vís
sú um aldir alda.

503. Því ætíd hitnar elskan mest
af framførum gérdu

nær andi sá hún á er fest
yndislegri verdur.

504. Og eptir því er andi hvør
ununarsamlegri,
sem hann líkist Gudi gjør
í gjædsku og vitsku fegri.

505. En í skóla eilífdar
ógrynnin þúsunda:
allra stjarna innbúar,
einglar, menn, þad stunda.

506. Hvílík gledi himnum á
nær hópum þessum stóru
um eilífd fegrast elskan há,
er ádur ei þektir voru!

## Um sól Guds dýrdar.

507. Þú Guds dásøm dýrdar sól!
þó dauf hér megir finnast,
skýid sem þitt skyn oss fól,
skal um eilífd þinnast.

508. Ung sig skrýdir eilífd þá
allt af nýum ljóma;
Veldin lífsins vakna þá
veifa' ósjenum blóma.

509. Um lángar aldir lífsins tré
limi fær út skjóta;
ad sú blómgun eilíf sé
aldrei Gud mun þrjóta.

510. Dýrðar sól nær sjáum þig
í sílifnandi blóma,
æ hvað munt oss yndisleg
að árum þúsund ljóma!

511. Þegar mæddir hér í heim
hella' út beiskum tárum,
ljá þú geisla' af ljóma þeim,
er lýsir að þúsund árum!

512. Þessa birtu þó að hér
þannig undra megi,
fyrsta dagsbrún öll þó er
eilífðar hjá degi.

Einlægt dýrðin upp þó sér
um alda stigann stleigji,
fyrsta dagsbrún ætíð er
eilífðar hjá degi.

Þó alda hjól um eilífðer
aldrei stöðvast megi,
morgunbjarminn allt það er
eilífðar hjá degi.

O þú tíð sem aldrei dvín,
öllu tignarlegri!
ó Guðs dýrð er augum skýn
alltaf fegri og fegri!

O þann fagra eingla heim!
ó það kjærleiks bandið!

ó þann fjölda úr öllum geim!
ó þad dýrdar standid!
Lít, ó madur, lífsins tign!
Lausnara þakkir tjádu!
opna hugskots augun skygn!
elsku Guds nú sjádu!
Þessa sønnu sælu víst
sem vér nú um rædum
géfi oss fyrir gódann Krist
Gud á dýrdar hædum!

S k ý r í n g.

Guds dýrdar sól, þad er: Guds dýrd, verdur ekki sjen, fyrr enn oss opnast skilníngarvit sem tekid gétur móti einhvørjum hennar geisla. Skilníngarvit kallast hér sérhvør fullkomlegleiki, sem til geislans móttøku útheimtist. Þessir fullkomlegleikar veitast oss ekki allir í einu, heldur smámsaman. Í þessu lífi veitast þeir eptir þessari rød:

1) Tilvera, svo sem frumefni; í því ástandi er madurinn eins og daudur hlutur.

2) Jurtalífid, þannig lifir fóstrid í móðurlífi, vex þar eins og jurt hugsunarlaust.

3) Dýralífid, sem byrjar med fædunni; þá fer madurinn ad gjøra mun þess þæga og óþæga eins og dýr.

4) Skynseminnar líf; þá fer madur ad gjøra

mun góðs og ílls; þá fara geislar (Guðs dýrðar) fyrst að sjást, eða þekkjast.

5) Andlega lífið, þá fer maðurinn að géta deilt dýrðarinnar sól, eða að sjá að geislarnir koma frá einni uppsprettu; þekkja Guð.

Hér endar sá trøppugángur, sem vér höfum af að segja í þessum heimi; en í øðrum heimi mun hann halda áfram um alla endalausa eilífð. Eptir sem þessi trøppustig fjølga, þá fjølga alltaf þeir geislar Guðs dýrðar sem maðurinn gétur móti tekið. Trøppustig þessi kallast lífsins veldi (Livets Potenser). Ur því lífsins blómgun er komin upp í 4ða veldi, þá ekki einasta uppljómast það nýa veldi, heldur og einnig hin undangángandi. Eins trúum vér að gángi til í øðrum heimi, að þá verði allt það bjart, sem nú er dimmt. Maður sýnist þannig ekki vera skapaður til hastarlegs algjørlegleika, heldur til eilífrar blómgunar.



# Skírsla

## um Bessastaða-Skóla

fyrir Skólaárið 1841 — 1842.

Samin af

Jóni Jónssyni Lect. theolog. R. af Dbr.

Í skírslu minni fyrir skóla-árid frá 1ta Octóber 1840 til 31ta Maii 1841 hefi eg skírt frá þeim húsum, sem Bessastada skóla vidkoma, bædi þeim, sem skóla-lærisveinarnir eru í og þeim, sem Kénnurunum vóru ætlud til ad búa í (sjá bls. 11 og 12); mér sýnist þessvegna óþarft ad fara fleiri ordum þarum, enn þar er gjørt, þared allt stendur vid hid sama hvad yfirhøfud húsid snertir, og eins þad herbergi uppá kirkjuloptinu, sem skólans bækur eru í (Bibliótheк); einúngis vil eg géta þess, hvad íverhús skólans áhrærir, ad gluggar og glugga umbúnadir taka meiri og meiri skémdum af fúa, sem von er til, þared allt er ordid gamallt, en flestir gluggar, sem eru í herbergjum þeim, sem skóla-lærisveinarnir hafa umgaungu um, horfa til regnáttar. Ad ødru leiti er húsid hérumbil í sama ásigkomulagi, sem í minni fyrri skírslu er um umgétid, og eins bókahirslan á kirkjuloptinu.

---

Skólalærisveinarnir hafa þetta umlidna skólaár verid 40 eins og mørg nærst undanfarin ár[1], því fleiri hafa

[1]) Hér vil eg géta þess, ad eg hefi sídan í fyrra fengid ávísun um, ad stundum hafi verid í Hóla-skóla allt ad 28 lærisveinar, þessvegna hefi eg, í minni skírslu í fyrra, sett þar of fáa; vóru og þar 16 ølmusu-pláts, en í Skálholti 24.

ekki rúm í skólanum, og þeim hefir þetta ár verið tví- skipt, eins og í fyrra og um er getið í minni undan- gángandi skírslu bls. 14 — 16. Fjórir aukalærisveinar hafa auk þessara 40 notið kauplaust uppfræðíngar ásamt þeim reglulegu lærisveinum, eins og undanfarin ár, og með sama skilyrði og nefnt er í minni skírslu fyrir ár- ið 1840 — 41, en flestir þessara fjøgra vóru svo stutt komnir í skólalærdómi, að ekki værú fræddir í øllu, sem í neðrabekk var kennt.

Þeir 40 lærisveinar, sem í skólanum hafa notið kenslu (að auka-lærisveinunum ótøldum), eru 23 em-

Í Bessastaða, nú Íslands einasta lærða skóla, eru ekki nema 24, og hafa ekki verið síðan Hóla-skóla var steypt saman við Reykjavíkur skóla. Bágindi væri það, ef færri yrðu, og sár óviðsælt, ef þúngur skóla skattur yrði að leggjast á landið, er þaraðauk ómøgulegt yrði að fá, ef hørð ár uppá kæmu, nokkur ár í røð, af óhaganlegri veðuráttu, jarðeldum eða drepsótt; hvað allt opt hefir hjá oss skeð (sjá lærdómsl. fél. 14da B. um mannfækkun og hallæri á Íslandi), þó vér nú í mjøg mørg ár meigum heita að hafa aldeilis komist hjá þessum meinsemdum; en þess framar má óttast, að skúr komi eptir skin. Þannig hefir Íslands hagur verið híngaðtil. Þó fiski- afli bregðist í Íslandi nokkur ár, þá er það mjøg sjaldan, að það sé í øllum þess sjóverum eins, allrasíst mørg ár í belt; enda þá góður afli kémur aptur, bætast aptur øll mein á stutt- um tíma; líkt og í kornløndum, þá afbragðs uppskéru-ár kém- ur eptir bág ár, eða løgn fyrir þann, sem fer landa ámilli og hvers skip stormur hefir laskað. Þannig er því eigi háttað þá fénaður hrapar niður um allt land, eða svo fjórðúngum skiptir; það þurfa mørg ár til þess, að sá skaði bætist. Þegar þvílíkt uppá kémur, fellur jafnvel þeim hjá oss, er ríkir nefnast, nógu erviðt, að halda sonum sínum til bókmenta, hvað þá hinum fátækari, sem ekki án styrks eru þess megnugir, þó vel ári? Vorir gáfuðustu og duglegustu menn hefðu aldrei til bókmenta verið settir, ef ekki hefði hast von um með framtíð að øðlast ølmusu styrk.

bættismanna synir, 15 bænda og handydna manna synir, og 2 kaupmanna synir. Fjórir þessara hafa verid í skólanum 6 ár, og 3 þeirra notid $4\frac{1}{2}$ árs, en einn 3 ára ølmusu. Þessir allir útskrifudust úr skóla nú vid skóla árfins enda. Hinir 2 sem útskrifudust høfdu einúngis 5 ár notid uppfrædíngar í skólanum, og annar þeirra notid $4\frac{1}{2}$ árs, enn hinn 3 ára ølmusu (heilt Stipendium). Sjø þeirra 34 lærisveina, sem í skólanum eru eptir, hafa verid þar 5 ár, og einn þessara notid $4\frac{1}{2}$ árs, einn 4 ára, einn $3\frac{1}{2}$ árs, þrír 3 ára og einn $\frac{1}{2}$ árs ølmusu. Fjórir hafa verid í skólanum 4 ár; tveir þessara notid 3 ára, einn $2\frac{1}{2}$ árs og einn $\frac{1}{2}$ árs ølmusu. Átta hafa verid þar 3 ár, og einn þeirra notid $2\frac{1}{2}$ árs, þrír $1\frac{1}{2}$ árs, adrir þrír 1 árs ølmusu og einn eingrar. Níu hafa þar verid 2 ár, og einn þessara notid $1\frac{1}{2}$ árs, þrír $\frac{1}{2}$ árs, en fimm hafa eingrar ølmusu notid. Sama er ad seigja um þá 6, er ekki hafa verid í skólanum nema 1 ár, ad þeim er eingin ølmusa enn veitt; því Stiptsyfirvøldin hafa gjørt sér þad ad reglu hin sídari árin, ad veita eingum uppeldis stirk hid fyrsta skóla-ár (allir njóta uppfrædíngarinnar kauplaust), til þess ad komast hjá því ad veita þeim stirk af opinberum sjód, sem óhæfir, eda lítid hæfir eru til bókmenta; því þad er audskilid og margreint, ad ekki er óhullt ad setja traust til allra vitnisburda sem fylgja beidninni um inntøku í skólan; þeim vitnisburdum er háttad eins og ødrum um vidar heimsálfur, ad þeir eru misjafnlega áreidanlegir; sumra vitnisburdir eru fylltir med gum (Hyperboler), en adrir úrgéfnir med mestu varkárni, því sá sem géfur, er sjálfur hræddur um ad géfa kunni betri vitnisburd enn sannleika sambýdur, og tekur því var-

lega til ordo. Þetta er viſsulega orſök til, ad Stipts-yfirvøldin ekki hafa veitt nokkur ár ølmuſsu neinum fyrrenn hann var 1 ár reyndur í ſkólanum[2]; því þó einſtakir lærdómspilltar hafi af ſkólans kénnurum verid reyndir, í því ſem leſid hafa, ádur enn um ſkóla hefir verid fyrir þá ſókt, er þad lítil reynſla, og um hana verdur einúngis ſagt, ad hún ſé betri enn ekkért, þegar hún er borin ſaman vid þann vitnisburd, ſem þeim hefir verid géfin af þeirra undanførnu kénnurum. En undir þeſsa reynſlu géta þeir einúngis lagt ſig, ſem nærſtir eru. Þad væri þúngt ef allir, ſem um ſkóla ſæktu, væru ſkuldbundnir ad fara heiman viku, jafnvel 2ja eda 3ja vikna ferd adra leidina, og fara ad øllu búnu forgéfins ferd, er þó koſtadi ekki ſvo lítid t. a m. frá Isafjardar, Bardaſtrandar, Skagafjardar, Eyafjardar, Þíngeyar, Múla-og Skaptafells-ſýſlum.

---

I Efrabekk hafa verid eptirfylgjandi læriſveinar þetta ſkóla-ár: 1. Eiríkur Arnld Sivertſen. 2. Daniel Haldórsſon. 3. Brinjólfur Snórraſon. 4. Gunnar Olafsſon. 5. Haldór Kriſt. Fridriksſon. 6. Jónas Gudmundsſon. 7. Bjørn Haldórsſon. 8. Bjørn Þorláksſon. 9. Sveinbjørn Gudmundsſon. 10. Jón Arnaſon. 11. Sigurbjørn Sig-

---

[2]) Þó ennm fátæku falli þad ſárørdugt, ad géfa med ſonum ſínum 1 árs heila medgjøf, allrahelſt ef þeir á undan hafa kanſké ſárreitt ſig, næſtum innad ſkirtunni, til ad koma þeim til kénnſlu hjá einhverjum, til ad undirbúa þá til þeſs, ad þeir fái þad numid, ſem úrheimtiſt til þeſs ad þeir géti feingid ſkóla (ſjá m. ſkirſlu ſ. ár 1840—41), þá miſkunar ſig einhver optaſinær yfir þá fyrſta árid, ef álítaſt ſérdeilis efnilegir þá til láns, ef ekki géfins.

fússon. 12. Árni Bødvarsson. 13. Bjarni Sivertsen Gunnarsen. 14. Snorri Jónsson Nordfjørd. 15. Einar Vernhardsson. 16. Bergur Halldórsson. Og úr nedrabekk vóru uppteknir í efrabekk: 17. Laurits Michael Johnsen. 18. Jón Sigurdsson. 19. Árni Gíslason. 20. Steindór Stefánsson. 21. Þórdur Þorgrímsson og 22. Gúdmundur Bjarnason. Í nedrabekk vóru þessir: 1. Jón Jónsson. 2. Oddur Hallgrímsson. 3. Magnús Gíslason. 4. Finnur Þorsteinsson. 5. Jóhann Knútur Benediktsson. 6. Gunnlaugur Guttormsson. 7. Oddur Sveinsson. 8. Þorvaldur Bødvarsson. 9. Gunnar Hallgrímsson. 10. Karl Ole Robb. 11. Bogi Thorarensen. 12. Steindór Torfason. Þessir vóru eptir í skólanum vorid 1841; en þessir 6 nýir læriſveinar bættust vid í þess nú hjá lidna skóla-árs byrjun 1ta Októbr. 1841, í stad þeirra 6, sem útskrifudust í Majó næst á undan: 13. Eiríkur Jónsson, sonur Prests Jóns Bergssonar á Einholti í Skaptárfells Sýslu. 14. Jónas Thorstensen, sonur Landlæknirs Justitsráds Jóns Thorstensens í Reykjavík. 15. Gísli G. Brinjulvsen, sonur *Dr.* Gísla sál. Brinjulvsens Prests á Hólmum í Sudurmúla Sýslu. 16. Jón Audun Bløndahl, sonur Sýslumanns Bløndahls í Húnavatns Sýslu. 17. Benedikt Kristjánsson, sonur Dannebrogsmanns og fyrrum umbodsmanns Kongungs (Administrators) og hreppstjóra Kristjáns Jónssonar á Illugastødum í Þingeyar Sýslu, og 18. Stefán Gudnason, sonur bóndans Gudna Hallgrímssonar á Ljósavatni í sømu Sýslu.

Sú rød, sem þeir læriſveinar er vóru í skóla á undan skóla-árinu 1841—42, er hér hin sama rød,

# Yfirheyrslan

skér í þessari röd þann 23—28 Maji 1842.

| | | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|---|
| Mánudagur | f. m. | 8 — 10½ | Eb. | Lærisveinar | reyndir | í Latínu. |
| | | 10½ — 11 | Nb. | — | — | í Landaskipunarfrædi. |
| | | 11 — 12 | Eb. | — | — | í Kristil: trúarlærdómi. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. | Nb. og þeir sem útskr. | r. | í Latínskum stíl. |
| Þridjudag | f. m. | 8 — 10½ | Eb. | Lærisveinar | reyndir | í Grísku. |
| | | 10½ — 11½ | Nb. | — | — | í Biblíusögunni. |
| | | 11½ — 12 | Eb. | — | — | í Landaskipunarfrædi. |
| | e. m. | 2 — 6 | Eb. | Nb. og þeir sem útskr. | r. | í Dönskum stíl. |
| Midvikudag | f. m. | 8 — 10½ | Nb. | Lærisveinar | r. | í Grísku. |
| | | 10½ — 12 | Eb. | — | — | í Skilníng N. T. |
| | e. m. | 2 — 3 | Nb. | — | — | í Dönsku. |
| | | 3 — 6 | Nb. | og þeir sem útskr. | r. | í Íslendskum stíl. |
| Fimtudag | f. m. | 8 — 10½ | Nb. | Lærisveinar | r. | í Latínu. |
| | | 10½ — 12 | Eb. | — | — | í Veraldarsögu. |
| | e. m. | 2 — 3 | Þeir | sem útskr. | — | í Latínu. |
| | | 3 — 4 | — | — | — | í Grísku. |
| | | 4 — 5 | — | — | — | í Hebresku. |
| Föstudag | f. m. | 8 — 9 | — | — | — | í Dönsku. |
| | | 9 — 9½ | — | — | — | í Landaskipunarfrædi. |
| | | 9½ — 10½ | — | — | — | í Kristil: trúarlærdómi. |
| | | 10½ — 12 | — | — | — | í Reikn: l. og Jardarmfr: |
| | e. m. | 2 — 3 | — | — | — | í Skilníng N. T. |
| | | 3 — 4 | — | — | — | í Veraldarsögu. |
| | | 4 og s. fr. dómur lagdur á framfarir þeirra sem útskrifast. | | | | |
| Laugardag | f. m. | 8 — 9 | Nb. | Lærisveinar | r. | í Veraldarsögu. |
| | | 9 — 10 | Eb. | — | — | í Reiknings. l. |
| | | 10 — 12 | Eb. | og Nb. efrihluti | — | í Hebresku. |
| | e. m. | 2 — 3 | Eb. | Lærisveinar | — | í Dönsku. |
| | | 3 — 4 | Nb. | — | — | í Reiknings: l. |

Þar eptir verda atkvædi samanborin og dómur lagdur á hvernig lærisveinum þeim er eptir verda tekist hefir í þetta sinn.

Bessastada = Skóla þann 25ta April. 1842.

(Til blſ. 7.)

A

# Tabla

um það, hvernig hverjum af þeim, ſem útſkrifuðuſt, tókſt í því opinbera lærdómsprófi þann 23—27 Maii 1842 í hverri lærdómsgrein útaf fyrir ſig.

| Nøfn Læriſveinanna. | Latína. | Lat. ſtíll. | Gríſka. | Danſka. | Danſk. ſtíll. | Jsl. ſtíll. | Hebreſka. | Utſk. N. T. | Trúar. lærd. | Sagnafrædi. | Landa-ſkip. fr. | Jardm. frædi. | Reikn. liſt. | Høfud tala. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Daniel Haldórsſon. | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | dáv. | dáv. | ág. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | ág. | ág. | 96 |
| 2. Brynjólfur Snorraſon. | dáv. | dáv. | dáv. | dáv. | dáv. | vel | ág. | ág. | dáv. | ág. | ág. | ág. | ág. | 95 |
| 3. Haldór Fridriksſon. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | vel | dáv. | ág. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | ág. | ág. | 91 |
| 4. Gunnar Olafsſon. | vel | vel | vel | vel | vel | vel | dáv. | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | dáv. | ág. | 82 |
| 5. Bjørn Þorláksſon. | vel | ſæmil. | ſæmil. | vel | vel | vel | vel | vel | dáv. | ſæmil. | dáv. | dáv. | ág. | 72 |
| 6. Einar Vernhardsſon. | ſæmil. | ſæmil. | lakl. | vel | ſæmil. | vel | ſæmil. | vel | vel | ſæmil. | ág. | dáv. | vel | 63 |

Athugagrein: Af þeim læriſveinum, ſem útſkrifuðuſt í fyrra (ſjá ſkírſluna fyrir ár 1840—41 Tabla **B**) ſigldu 2 til háſkólans: Vilh. Ludv. Finſen og Joh. Chr. Briem, og fékk hinn fyrrnefndi í examine artium í Októbr. 1841, **Laudab**:, hinn ſíðarnefndi **Haud. illaudab.**; en þaraðauki løgðu 2 aðrir, útſkrifaðir frá Beſſaſtaða ſkóla, ſig undir Háſkólans 1ta lærdómspróf: Siv. Joh. Gottfr. Hanſen, útſkrifaður í Majó 1839, og Jón Þórðarſon (Thoroddſen) útſkrifaður í Majó 1840 (ſjá nefnda ſkírſlu **B. b. c.**), ſem báðir fengu **Haud illaudab.**

# Tabla

um þad, hvørnig þeim Lærisveinum, sem eptir urdu, hefir tekist í því opinbera lærdómsprófi í Bessastada skóla, þann 23—26ta og 28da Maii 1842 í hvørri lærdómsgrein útaf fyrir sig.

| Nøfn Lærisveinanna. | Latína. | Lat. stíll. | Gríska. | Danska. | Danskr. stíll. | Ísl. stíll. | Hebreska. | Utsk. N. T. | Trúarl. og Biblíus. | Veraldar saga. | Landa. skip. fr. | Reikn. list. | Summa. |
|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|---|
| 1. Jónas Gudmundsson. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | vel | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | 89 |
| 2. Eiríkur R. Sivertsen. | dáv. | vel | ág. | ág. | dáv. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | ág. | 87 |
| 3. Bjørn Haldórsson. | hefir legid sjúkur. | | | | | | | | | | | | |
| 4. Sveinbjørn Gudmundsson. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | vel | —"— | ág. | dáv. | ág. | vel | ág. | dáv. | 79 |
| 5. Jón Arnason. | vel | vel | dáv. | dáv. | vel | —"— | *dáv. | vel | dáv. | ág. | ág. | ág. | 76 |
| 6. Sigbjørn Sigfússon. | lá sjúkur. | | | | | | | | | | | | |
| 7. Lárus M. Jónsen. | vel | sæmil. | dáv. | ág. | vel | —"— | dáv. | ág. | dáv. | ág. | ág. | ág. | 76 |
| 8. Gudmundur Bjarnason. | vel | vel | vel | dáv. | sæmil. | —"— | *dáv. | vel | dáv. | ág. | ág. | ág. | 73 |
| 9. Snorri Nordfjørd. | sæmil. | sæmil. | sæmil. | —"— | —"— | —"— | —"— | —"— | vel | lagdist sjúkur. | | | |
| 10. Steindór Stephánsson. | vel | vel | vel | dáv. | vel | —"— | *dáv. | sæmil. | dáv. | dáv. | ág. | ág. | 72 |
| 11. Arni Bødvarsson. | vel | vel | dáv. | dáv. | vel | —"— | dáv. | vel | vel | ág. | ág. | vel | 72 |
| 12. Arni Gíslason. | vel | vel | vel | dáv. | vel | —"— | dáv. | dáv. | vel | dáv. | ág. | vel | 70 |
| 13. Bergur Haldórsson. | vel | vel | vel | dáv. | vel | —"— | ág. | vel | vel | ág. | ág. | sæmil. | 70 |
| 14. Bjarni Gunnarsen. | vel | vel | vel | vel | dáv. | —"— | vel | vel | vel | vel | ág. | ág. | 69 |
| 15. Þórdur Thorgrimsen. | vel | sæmil. | vel | dáv. | vel | —"— | *dáv. | vel | dáv. | dáv. | ág. | dáv. | 69 |
| 16. Jón Sigurdsson. | vel | vel | vel | vel | vel | —"— | vel | vel | vel | vel | ág. | vel | 66 |
| 1. Jón Jónsson. | ág. | dáv. | ág. | vel | vel | dáv. | ág. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | 82 |
| 2. Gísli Brynjulvsen. | ág. | vel | dáv. | ág. | vel | vel | ág. | —"— | ág. | ág. | ág. | dáv. | 77 |
| 3. Oddur Hallgrimsson. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | vel | vel | ág. | —"— | dáv. | ág. | ág. | ág. | 74 |
| 4. Finnur Þorsteinsson. | dáv. | sæmil. | ág. | ág. | sæmil. | vel | *dáv. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | 73 |
| 5. Jóhann K. Benediktsson. | dáv. | sæmil. | ág. | dáv. | sæmil. | sæmil. | ág. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | 72 |
| 6. Bogi Thorarensen. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | vel | vel | sæmil. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | 72 |
| 7. Jónas Thorsteinsen. | var fluttur sjúkur inn í Reykjavík. | | | | | | | | | | | | |
| 8. Jón Audunn Bløndal. | dáv. | vel | dáv. | dáv. | vel | vel | *dáv. | —"— | ág. | dáv. | ág. | vel | 71 |
| 9. Magnús Gíslason. | dáv. | vel | dáv. | vel | sæmil. | vel | dáv. | —"— | ág. | dáv. | ág. | ág. | 71 |
| 10. Eiríkur Jónsson. | dáv. | vel | dáv. | ág. | sæmil. | vel | dáv. | —"— | vel | dáv. | ág. | dáv. | 70 |
| 11. Benedikt Kristjánsson. | dáv. | sæmil. | dáv. | dáv. | sæmil. | vel | *dáv. | —"— | dáv. | dáv. | ág. | ág. | 68 |
| 12. Oddur Sveinsson. | dáv. | vel | vel | vel | sæmil. | vel | dáv. | —"— | dáv. | dáv. | dáv. | ág. | 67 |
| 13. Þorvaldur Bødvarsson. | veikur. | | | | | | | | | | | | |
| 14. Gunnlaugur Guttormsson | vel | vel | dáv. | dáv. | vel | vel | vel | —"— | dáv. | sæmil. | ág. | ág. | 67 |
| 15. Stephán Gudnason. | vel | vel | sæmil. | vel | sæmil. | vel | *dáv. | —"— | ág. | ág. | ág. | ág. | 66 |
| 16. Carl Ole Robb. | sæmil. | vel | vel | dáv. | vel | sæmil. | vel | —"— | sæmil. | sæmil. | ág. | ág. | 60 |
| 17. Gunnar Hallgrimsson. | vel | lakl. | dáv. | vel | sæmil. | vel | *vel | —"— | dáv. | vel | ág. | dáv. | 59 |
| 18. Steindór Torfason. | vel | sæmil. | sæmil. | dáv. | sæmil. | sæmil. | | —"— | sæmil. | lakl. | vel | sæmil. | 46 |

Skgr: Stjarnan (*) þýdir ad Odysseyfs drápa hefir verid lesin í stadinn fyrir Hebresku; en ág. þýdir ágjætlega; dáv. dável; sæmil. sæmilega; lakl. laklega. Lat. stíll er tekinn 3faldt, Latína, Gríska og Trúarlærdómur, 2faldt, hitt allt einfaldt (sjá skírslu mína í fírra, bls. 16 og 17); sømu reglu hefir verid fylgt vid þá sem útskrifudust; þó er hér vid adgætandi ad bibliusagan, sem í vetur kom í trúarlærdómsins stad í nedrabekk, var ekki tekin nema einfaldt.

sem þeir vóru í í fyrra vor (sjá Tøbl. A blf. 16 er fylgdi skírslu minni fyrir skóla-árið 1840—41), að undanteknu því, að nokkrir sem ofar sátu í nedrabekk vóru látnir verða þar eptir, af því okkur kénnurunum kom saman um, að þeir mundu hafa betra af því; en aðrir sem þar neðar sátu vóru teknir uppí efrabekk, en þessara upptøku í efrabekk var eins háttað og eg gat um í fyrra í skírslu m. blf. 15, að sumir þeirra þóktu oss ekki vel til þess færir, en urðum vegna rúmleysis-ins í nedrabekk að gjøra það. Þeir nýu lærisveinar vóru settir neðstir í nedrabekk, og niðurraðað eptir þeirra latínska prófstíl (sjá skírslu m. í fyrra blf. 23); og reyndust allir betur í miðsvetrar lærdómsprófinu, enn margir þeirra eldri í sama bekk (Classe); en þareð þetta miðsvetrar lærdómspróf er ekkért aðalpróf, set eg hér ekki niðurrøðunina, sem þá varð; en Tøblurnar, sem hérmeð fylgja, sýna hvernig lærisveinunum geingið hefir í því opinbera lærdómsprófi (den offentlige Examen), sem haldið var nú í Majó. Taflan A sýnir, hvorn-ig þeim fórst, sem útskrifuðust, en Tabl. B hvørnig fór fyrir þeim, sem eptir urðu, í hvørri lærdóms grein útaf fyrir sig.

Nr. 1. 2. 3. 4. 5. í Tøbl. A, nutu skóla-ár-ið sem leið heillrar ølmusu (heelt Stipendium), en No. 6 naut hálfrar. Í Tøblunni B hefir af efribekk-íngum Nr. 2. 3. og 8 notið hálfrar ølmusu, en all-ir hinir heillrar; en af neðribekkíngum Nr. 1. og 3. notið heillrar, en Nr. 4. 9. 12. og 13. hálfrar øl-musu, en einginn hinna neðribekkínga hefir nokkurrar ølmusu notið. Allir njóta kapplaust uppfrædíngar í skólanum, eins og sagt er blf. 18 í minni opt nefndu skírslu. Fyrir utan hér umgétna hjálp hafa Stipts-

yfirvøldin í ár (eins og einlægt síðan ár 1819), samkvæmt þeim géfnu leyfi af því konúngl. Stjórnarráði Háskólans og hinna lærðu skóla þ. 22. April 1819, veitt einstøkum skóla lærisveini stirk til að géta keypt sér nauðsynleguztu bækur til framhalds lærdómi þeirra í skólanum. Þannig hafa þau í ár, eptir minni beiðni, veitt eptirfylgjandi lærisveinum stirk til að géta borgað þær bækur, er þeir máttu ekki án vera:

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Arna Gíslasyni veittu þau | . | 3 rbd | 2 β | stirk. |
| Magnúsi Gíslasyni | . . . | 5 — | 36 — | — |
| Þórði Þorgrímssyni | . . . | 3 — | 2 — | — |
| Bjarna S. Gunnarsen | . . | 3 — | 68 — | — |
| Einari Vernharðssyni | . . | 4 — | 7 — | — |
| Jóni Sigurðssyni | . . . | 4 — | 26 — | — |
| Til samans. | | 23 rbd | 45 β. | |

Stundum hafa þau veitt fleirum, eða einstøkum meiri stirk, þó man eg ekki til að þesshártar stirkur hafi stórvægis farið framyfir 29 Rbdl. á ári. Þó þeim sem ríkari eru sýnist kannské svo lítill stirkur ekki draga lángt á leið, þegar hann margskiptist, þá er hann samt mikill velgjørníngur, en þeim hugkvæmist eigi, að øreigann munar um hvørt lítilræðið.

---

Árlega sendir hið ofannefnda Konúnglega Stjórnarráð handa skólalærisveinunum bækur þær, sem þeir ekki meiga án vera til lærdóms síns, er vér biðjum um árið fyrir, eptir því sem vér sjáum að við muni þurfa næsta ár. En auk þeirra bóka, sem skólalærisveinunum eru sendar til kaups[3], af hverjum hið nefnda Stjórn,

[3]) Það er øllum Íslendíngum kunnugt, að aðrar bækur, enn

arráð eptirgéfur ⅓ part bókhlöðuverðs, sem og svo er stór velgjörníngur, hefir það skóla-árið, sem nú er liðið, sendt bókasafni skóla vors (Skolebibliotheket) eptirfylgjandi bækur:

Stephani thesaurus lingvæ græcae Fasc: 22. 23. 24.

Universitetets Aarbog fyrir 1839.

Brage og Idun. Høst og Vinterhæftet.

Scharlings og Engelstofts theologiske Tidsskrift 4. D. 2. Hæft. 5. D. 1. Hæfte.

Clausens og Hohlenbergs theologiske Tidsskrift Aargangen 1840.

Rosenvinges Rescripter 3. D. 4de Hæfte.

Sterms Beskrivelse over Kjøbenhavns Amt.

Sterms Grundtegninger af Kjøbenhavn.

Rasks Morskabslæsning Nr. 39—42. Ny Række Nr. 1—52.

Molbechs historiske Tidsskrift 1. D. 2. Hæft. og 2. D. 1. Hæfte.

Orion 3. D. 1. 2. 3. Hæfte og 4. D. 1. 2. H.

Krøyers naturhistoriske Tidsskrift 2. D. 6. H. og 3. D. 1. 2. 3. Hæfte.

Beckers Verdenshistorie de 5 første Hæfter.

Baggesens danske Stat.

Langes almindelige Grammatik 1. D.

Knudsen Joachim Ransow.

Ramus Algebra og Functioner.

Meislings spanske Grammatik.

Hüberts om Bevægelsen i den danske Befolkning.

---

Þær sem prentast í landinu sjálfu, allrasíst skólabækur, eru hér ekki að fá til kaups, nema ef það vill svo til af hendingu, að einstök bók er á boðstólum.

John de danske Auxiliartropper.
Molbechs Dialect-Lexicon (endar í S.)
Lengnichs Stamtavler.
Køningsfeldts genealogiske Tabel over den oldenborgiske Stamme.
Mansas Kort angaaende Fyen.
Zythen Tidens Strøm, de 5 første Leveringer.
Det statistiske Tabelværk, de 3 første Hæfter.
Ingerslev om det lærde Skolevæsens Tilstand í Tydskland og Frankerig.

Parfyrir utan sendi nefnt Stjórnarráð bodsrit margra skóla, Kaupmannahafnar Háskóla og Sóreyar til ýmislegs hátidarhalds, sömuleidis Disputatiur ýmislegs innihalds haldnar árid 1840. Med nefndri bókasendíngu fylgdu líka ætlunarverk Háskólans og Sóreyar Academíis fyrir þá í höndfarandi kénnslu ár (Prælections Cataloger), svo vel sem Töblur um það hvørja þekkíngar vitnisburdi þeir hefdu feingid, sem tóku hid fyrsta opinbera lærdómspróf (Examen Artium) á nefndum Háskólum.

---

Allir eru kénnararnir sömu sem í fyrra (sjá m. undangángandi skírslu bls. 12 og 13) og hver þeirra hefir haft þetta skóla-ár sama ad kénna sem það undanfarna, og eins margir tímar hafa hverjum fyrir sig verid ætladir, sem Lestrar-tablan C, er eg læt hérmed fylgja, glögglega sýnir. Pad er því ekki eptir ad skira frá ödru skóla vorum vidkomandi enn því, hvad hverr kénnari hefir yfirfarid og hvernig. og læt eg hvern útaf fyrir sig segja sjálfan frá því, eins og í fyrra.

1) Lektor. Eg hefi kénnt: a) Í esrabekk, lær-

# Lestrar-tabla

## fyrir Bessastaða-skóla, skóla-árið 1841—1842.

| Klukkustundir | Mánudagur. | Þriðjudagur. | Miðvikudagur. | Fimtudagur. | Föstudagur. | Laugardagur. |
|---|---|---|---|---|---|---|
| f. m. 8—9. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. Gríska. S. E. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. ísl. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. D. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. ísl. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. D. St. B. G. | Eb. Latína. Sch.<br>Nb. Ehl. L. St. S. E. |
| f. m. 9—10. | Eb. Gríska S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. D. St. J. J.<br>Nb. Ehl. L. St. Sch.<br>— Nhl. L. St. B. G. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga.<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga.<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga.<br>S. E. | Eb. og Nb.<br>Veraldar-saga.<br>S. E. |
| f. m. 10—11. | Eb. Rlist. B. G.<br>Nb. Blsög. J. J. | Eb. Gríska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Gríska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Gríska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Gríska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. | Eb. Gríska. S. E.<br>Nb. Latína. Sch. |
| f. m. 11—12 | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Ehl. L. St. Sch.<br>— Nhl. L. St. B. G. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Gríska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Gríska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Gríska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Gríska. S. E. | Eb. Trlærd. J. J.<br>Nb. Gríska. S. E. |
| e. m. 2—3. | — „ — | Eb. Lskfr. B. G.<br>Nb. Blsög. J. J. | Eb. Rlist. B. G.<br>Nb. Blsög. J. J. | Eb. Rlist. B. G.<br>Nb. Blsög. J. J. | Eb. Rlist. B. G.<br>Nb. Blsög. J. J. | Eb. Danska. S. E.<br>Nb. Blsög. J. J. |
| e. m. 3—4. | — „ — | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Danska. B. G. | Eb. Hebreska. J. J.<br>Nb. Rlist. B. G. | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Danska. B. G. | Eb. Utsk. N. T. J. J.<br>Nb. Lskfr. B. G. | Eb. Hebreska. J. J.<br>Nb. Rlist. B. G. |
| e. m. 4—5. | — „ — | Eb. L. St. Sch.<br>Nb. Rlist. B. G. | — „ — | Eb. D. St. J. J. og S. E.<br>Nb. Ehl. L. St. Sch.<br>— Nhl. L. St. B. G. | Eb. L. St. Sch.<br>Nb. Rlist. B. G. | — „ — |

Hér fyrir utan hefir *Lector* kennt Hebresk málfræði (Hebraiske *Grammaticalia*) þeim efstu i neðrabekk 2 tíma í hverri viku.

Skgr: J. J. þýðir: *Lector* Jón Jónsson. Sch. *Dr.* Scheving. S. E. kennara Sveinbjörn Egilsson. B. G. kennara Björn Gunnlaugsson. L. St. þýðir: Latinskann stíl. D. St. Danskann stíl. ísl. St. íslendskann stíl. Lskfr. Landaskipunarfræði. Rlist. Reikningslist. Trlærd. lærdóm kristilegrar trúar. Blsög. Bibliusögu. Utsk. N. T. Utskíringu Nýa-testamentisins. (Exegese). Eb. Efrabekk. Nb. Neðrabekk. Nb. Ehl. efra hluta, enn Nhl. neðra hluta neðrabekkjar.

dóm kristilegrar trúar, og lagt til grundvallar, eins og ædi mørg undanfarin ár, **Dr.** Fogtmanns lærdóms bók, þared mér hefir þókt hún svo audskilin. Í fyrstu þá eg byrjadi ad kénna þessa lærdóms grein, var eptir Háskólans og hinna lærdu skóla Stjórnarráds (Directionens for Univ. og de l. Sk.) skipan, Niemeyers Lærdómsbók løgd til grundvallar, sídan bad eg um skipti ad meiga brúka Meyers, og loksins um **Dr.** Fogtmanns, af nefndri orsøk. Í þeirri sídstnefndu hefi eg þetta árid yfirfarid og útlistad §§ 1—46 og 98—104, og farid ad því á áþekkan hátt, sem eg gat um í minni í fyrra ritudu skírslu bls. 18 og 19. b) Í nedrabekk hefi eg þarámót yfirfarid og útlistad Herslebs stærri biblíusøgu alla, en samt einúngis lauslega yfirfarid bls. 287, bókina út. Af því skólasveinunum verdur ekki, og hefir ekki ordid, nema tvískipt og eg hefi haldid naudsynlegt, ad þeir gjætu tvisvar yfirfarid Fogtmanns lærdómsbók í skólanum, hefi eg ekki fyrrenn nú yfirfarid biblíusøguna, og ætlad þeim ad gjøra þad sjálfum; en þared eg opt hefi ordid var vid ad þetta hefir verid forsómad, tók eg mér fyrir sjálfur ad yfirfara hana med þeim, og hefi eg haft þá adferd: ad eg fyrst hefi yfirfarid kabla og kabla og upplýst undireins þad sem mér sýndist ad þyrfti frekari upplýsíngar vid, enn bókin géfur, en svo daginn eptir hlýdt þeim yfir sama og spurt útúr því og haldid sídan áfram á greindan hátt í bókinni, þann part tímans, sem afgángs var yfirheyrslunni. c) Í N. T. hefi eg þetta skóla-ár útlagt og útlistad í efrabekk 14 kapítula Markúsar Gudspjalla, alltaf med hlidsjón til hinna gudspjallamannanna, helst Mattheusar og Lúkasar. Allt á líkan hátt og í m. undangángandi skírslu bls. 19 er frásagt. d) Í Hebresku hefi eg lesid í

efrabekk 6 til 22 kap. í 1tu Móísesbók. á þann hátt, að eg hefi fyrst útlagt hvert vers á íslendsku, svo nálægt orðum sem varð, og gétið um ef eitthvað fyrirkom skjaldgjæft málinu viðkomandi; en þegar eg var þannig búinn að yfirfara hvorn kapítula, hefi eg næsta tíma, er til hebresku var ætlaður, hlýðt lærisveinunum yfir hann og spurt nákvæmar um það, sem fyrirkom hebreska málfræði snertandi. e) Hefi eg leiðrétt alla efrabekkjar dönsku stíla, 1 sinni í viku, en hjá öðrum hverjum hitt skiptið í vikunni, sem þeir hafa danskan stíl. Stílsefnið (thema) hefir verið ýmislegs innihalds, framanaf tekið úr Fornmanna sögunum, síðar var það ýmislegs efnis, en þó á íslendsku, optast útlagt af sjálfum mér úr dönsku eða þýðsku, og síðast var það á látínu, optast tekið úr Ciceros bók de amicitia. Einusinni hefi eg, eins og í fyrra, í stað dansks stíls sett efribekkingum fyrir spursmál í guðfræðilegu efni til úrlausnar á dönsku, hvar til þeim var ætluð $1\frac{1}{2}$ klukkustund, og sat eg yfir þeim ámeðan þeir vóru að svara uppá spursmálið, en var síðan meðfarið eins og gétið er um í fyrra árs skírslu bls. 19 og 20. Í neðra bekk hefi eg ekki nema með 1 útlistað og yfirfarið Lindbergs stuttu vegleiðslu í hebreska málinu, en rifjað hebresku Grammatíkina upp fyrir öllum í neðrabekk, sem höfðu yfirfarið hana áður, og lesið þar á eptir með þeim 14 vers 4 Kap. 1tu Móíses bókar.

2) Dr. Scheving. a) Í Neðrabekk. Þá eg var búinn að upprifja fyrir lærisveinum þessa bekks það sem mér þókti mest áríðandi í hinum etymologiska kabla í Bröders stærri latínsku Grammatík, las eg með þeim til Jóla Ciceros varnarræðu fyrir Rosc. Amer. frá 38 Kap., ræðuna út, og ræðurnar pro lege Manilia

og Archia poeta; en eptir midsvetrar Examen hefi eg í nedra bekk lesið 3 bækur af Virgils Æneis, að þeim 286 versum fyrstu bókar frátöldum, sem eg búin var með fyrir Examen; líka hefi eg lesið, 2 bækur Odarum Horatii, að þeim Odis undanskildum, sem ekki er vant að lesa í skólum. Hérvið hefi eg haft sömu aðferð og lýst er í fyrra árs skírslu um Bessastaða skóla bls. 20. Eins og að undanförnu hefi eg lagfært hina latínsku stíla í neðri bekkjar efri deild. b) Fyrir miðjan vetur yfirfór eg í efrabekk 1 og 2 bók Ciceros um skyldurnar og 3já fyrstu Kapp. 3ju bókarinnar; en frá miðjum vetri hefi eg lesið í þessum bekk, það sem eptir var af 3ju bók Cic. um skyldurnar; báðar bækur sendibréfa Horatiusar ásamt Arte poetica og haft hér við sömu aðferð og lýst er í fyrra árs skírslu um Bessastaða skóla bls. 20. Eins og að undanförnu hefi eg lagfært alla efra bekkjar Latínu stíla. Af því mér urðu afgángs fáeinir tímar eptir það eg var búin að ljúka við þá latínsku auctores, sem vant er að lesa í efra bekk, varði eg tímum þessum til þess að láta Remanentes gjöra extemporal stíla.

3) Kénnari Sveinbjörn Egilsson. Skóla árið 1841.— 1842 yfirfór eg með efribekkjar Lærisveinum, í Grísku: Platons Apologia Socratis (málsvörn Socratesar) og Samtalið Kríton, en í Skáldmælum 19. og 20 bók Odysseyfs-drápu, og af því enn var nokkuð eptir tímans, lét eg allan bekkinn lesa upp Lúsíans Tímon, og komumst við hann vel hálfan. Í Rahbekks dönsku Lestrarbók lásu þeir bls. 438 — 457 og 159 — 199. Eg hefi og leiðrétt danska stíla hjá öðrum hvörjum Efrabekkjar Lærisveini einusinni í viku.

Með Neðrabekkjar Lærisveinum las eg (eptir það

að þeir höfðu rifjað upp fyrir sér hinar grísku nafna og sagnabreytíngar) 14 Kapítula af Senofons Anabasis, nefnilega: 4. seinustu Kapp. af 2. bók, alla 3. bókina og 5 Kapp. af 4. bók; og lagfærði einu sinni í viku latínska stíla þeirra 12 Lærisveina, sem settust efstir í bekkinn í haust eð var.

Af Veraldarsøgunni yfirfóru Lærisveinar í báðum bekkjum Arabasøgu, um Mongola, Frakkasøgu, Englandssøgu og Niðurlendínga søgu.

4) Kénnari Bjørn Gunnlaugsson. Eg hefi nærstliðið skóla-ár kénnt í skólanum og yfirfarið: 1) Í Landaskipunarfræði eptir Riise í báðum bekkjum, þó ei sama dag, ríkin: Rússland, Pólinaland, Prússaríki, Þjóðverjaland, Austurríki, Niðurlønd, Bretalønd og Portúgal. Aðferðina brúkaði eg hina sømu sem í fyrra, hvarum lesa má Skýrslu Lektors fyrir skóla-árið 1840 — 1841 bls. 22. 2) Hjá efrabekkíngum yfirfór eg reikníngsfræðina (þ. e. bæði talna og bókstafa reikníng ásamt með Algebra) eptir Ursins lærdómsbók, þannig: að eg fyrst las upp af bókinni hvørja grein, þó á íslendsku, sleppti síðan bókinni, og sýndi hið sama og sannaði á tøblunni, og útskírði munnlega eptir sem verða vildi og tímin leyfði. En þætti mér það ekki verða nógu greinilegt eða reglulegt, sem skyldi, en vildi ekki eyða leingri tíma þartil, eða vildi bæta þar við einhvørju, eða sanna øðruvísi, þá skrifaði eg það upp heima hjá mér og afhenti síðan næsta dag í skólanum. 3) Í neðrabekk yfirfór eg reikníngslist eptir Bjørns lærdómsbók eins og í fyrra, en hvað Prílíðuna snertir, fór eg eptir þeirri nýútkomnu íslendsku reikningslist Klausturhaldara Jóns Guðmundssonar, hvar greinilega er skírt frá þeim

velska máta í Prílíðunni, hvør og stundum hefir brúkadur verið hér við skólann. 4) Með lærisveinunum í nedrabekk ýfirfór eg í Rahbekks dønsku Lestrarbók 2. bindi, í óbundnum stíl: bréf samin af Holberg, J. Sneedorf og F. Sneedorf; rædur samdar af Jakobi, Kampmann og Malling, samt gledileik Holbergs: den honette Ambition. Í bundnum stíl: Prams kímiljóð (satyriske Breve) Damon til Filindu, hetjuraunir (Heroider) af sama høfundi, sem eru: ljóðabréf Filippu Dana Drottníngar til Eiriks Kóngs, og Storms ljóðabréf undir nafni bløkkumannsins Alkansors til konu hans Samiru. Aðferðina brúkaði eg sømu sem í fyrra, sjá skírsluna bls. 23. Lokksins hefi eg lagfært stíluna einsog í fyrra, er skírslan umgétur.



# Leidréttingar

þess, er helst hefir yfirsjest í Njólu, bædi í handritinu og líka í prentuninni.

Bls. 6. línu 4 ad nedan: í regin hylji, les: um regin hylji. Bls. 22 l. 11 ad nedan: kunna l. kunnugu. Bls. 35 l. 10 ad ofan: þorsti mæda, bæt vid: Matt. 5, 6. Bls. 42 l. 12 ad ofan: berjast, bæt vid *) og nótu fyrir nedan, þannig: 211 * 1 Jóh. 5, 4. Róm. 8, 31—39. 1 Cor. 10, 13. Bls. 48 l. 7 ad nedan: ótal bæta l. ótal=bæta. Bls. 49 l. 5 ad nedan: Es. l. Esek. Bls. 59 nedst, (415) l. (416). Bls. 62 l. 5 ad nedan: Afsokun l. Afsokun. Bls. 64 l. 10 ad ofan: ad allir til sín nái, bæt vid: Esek. 33, 11. Somu sídu l. 18 ad ofan and' heims l. anda' heims. Bls. 66 nedst, Es. l. Esek. Bls. 96 l. 10 ad ofan: húsi, bæt vid: Jóh. 14, 2. Bls. 100 l. 6 ad nedan: þá l. þá. Bls. 101 l. 4 ad ofan: ad árum, l. árid *) bæt vid nótu fyrir nedan þannig: 510 * þ. e. á þúsundasta árinu, sem madurinn er búinn ad skoda Guds dýrd, og sjá hana allt af betur og betur. Bls. 102 l. 3 ad nedan: fædunni l. fædingunni.

Bls. 72 hefir höfundurinn óvart gleymt út einni af verkunum heilags Anda, nefnilega: hinni réttilegu bæn, hvarvid einnig þeir fyrir framan settu bókstafir, í tölustad, hafa ruglast. En rodina ókkar hann ad lesarinn ímyndi sér þannig:

*a*) Helgunin.
*b*) Guds ord.
*c*) Sú réttilega bæn.
*d*) Trúin.
*e*) Elskan til Guds og náúngans.
*f*) Huggun í hörmúngum.

